Það mætti, ef til vill svo að orði kveða, að nágrenni Reykjavíkur hafi fengið aukið vísindalegt gildi, er það er sjeð, að hjer eru til lög frá ísaldartímabilinu með allmiklum skeljaleifum. Meðfram þess vegna hef jeg viljað skýra stuttlega frá þessu nú þegar, í þessari bráðabirgðagrein, þó að ekki sje meira aðgert ennþá en að eins hafin rannsókn á jarðmyndunum þessum, frá því nýja sjónarmiði, sem hjer hefur verið bent á.

Í júní 1904.

---

# Fáein orð um íþróttir og skemmtanir fornmanna.

## I.

### Í æsku.

Hverr veit nema ek verða
víða frægr of síðir.
Har. harðráði.

»Vort æskulíf er leikur«, segir skáldið. Við barninu blasir spánný tilveran. Það sér þar allt í óðaönn, allt starfandi, menn, dýr og náttúruna; vaknandi hvatir benda því fram á við og knýja það til að taka þátt í annríkinu; kraptamegin vöðvanna krefst viðfangsefnis, hugsunaraflið leitar sér ósjálfrátt æfingar og styrktar með því að athuga og reyna að skilja umheiminn. Fyrst framan af lýsir starfshvötin sér á mjög óbrotinn hátt; en engu að síður má fullnæging hennar heita leikur. Allir höfum vér verið handóðir, allir spriklað meira eða minna í fangi fóstrunnar. En eftir því sem afl og athyggja þroskast, fara börnin vísvitandi að stæla orð og athafnir fullorðna fólksins. Leikar þeirra verða eins konar smágervismyndir af þeim starfsháttum, siðum og hugsjónum, sem þau alast upp við. Það nema börn, sem á bæ er títt. Tilfæringarnar eru einatt ófullkomnar, en hið fjörуga ímyndunarafl barnssálarinnar breiðir yfir brestina. Það er hverjum töframeistara meira. Því verður ekki

mikið fyrir að gjöra smápoll að útsænum, hefilspón að herskipi, hrífutind að manni. Og hver velur sér leik eptir eðli sínu og skapferli. Búmannsefnið leikur bóndann, er hirðir hjarðir sínar, farmannsefnið fer með skip sín landa á milli o s. frv. Og þó að leikar þessir séu framdir í gamni, þá miða þeir þó ósjálfrátt til annars meira en augnabliks eptirlætis. Þeir eru börnunum nokkurskonar uppeldisskóli undir störf fullorðins áranna

Líkt er því varið um »sport« (íþróttir og útileika) unglinganna og fullorðna fólksins. Það er annars vegar afspringur af lifnaðarháttum þjóðarinnar og hins vegar þýðingarmikið uppeldismeðal fyrir einstaklingana. Enda er það iðkað ekki einungis fyrir gamans sakir, heldur og jafnframt til menningar.

Í stuttu máli, leikar og íþróttir eru hvort tveggja í senn: eptirmyndir af lífinu og undirbúningur undir lífið.

Þegar vér lítum yfir aldursár hinnar íslenzku þjóðar, þá birtir oss þeim mun meir fyrir sjónnm sem lengra dregur aptur í tímann. Lengst í fjarska, á bak við sortann, lýsir fornöldin »sem leiptur um nátt«. Þar hittum vér fyrir þrekdjarfa kynslóð, er lifir dáðrökku lífi við frelsi, auðsæld og glæsilega menningu, Og et vér skygnumst eptir orsökunum til hins dæmafáa þroska þessa forna þjóðfélags, — þroska, er bregður leiðarljósi fyrirmyndarinnar langt fram um aldir, — þá verðum vér þess varir, að hann á sér að vísu dreifðar rætur, en að flestar þeirra eru þó runnar úr jarðvegi fornra trúarhugmynda. Á þeim hvíldi hin rammeflda ættrækni og forfeðraást, sem var atkvæðamesta gjörmagnið í þjóðlífi Norðurlandabúa og markaði sér hvervetna spor í menningu þeirra. Dæmi feðranna frægu, er sigldu um sæ á borðfögrum snekkjum og frömdu afreksverk víða um lönd eða sátu að búi sínu við rausn og mannvirðingar, var hin lýsandi stjarna á

vegi einstaklinganna og um leið á vegi þjóðarinnar í heild sinni. Þar átti hin heita þjóðernistilfinning jarðveg sinn; þaðan var hin öfluga menningarþrá sprottin. Þjóðin horfir hátt; hún fyrirlítur hættuna og skirrist enga raun. Trú hennar er herguðatrú og líf hennar að miklu leyti herskaparlíf. Því að enda þótt margir lifðu við friðsamleg störf, stunduðu búnað, en ekki víking og verzlun, þá voru þó sjálfsuppheldisskilyrðin þannig vaxin, að hver og einn varð að temja sér vopnaburð. Enda voru þeir fáir frjálsbornir menn, er vörðu ekki nokkrum hluta ævinnar til þess að framast með höfðingjum eða í siglingum. Að afla sér fjár og frama að dæmi feðranna, að sigra eða falla með hreysti og öðlast síðan virðulegt sæti meðal kappanna í Valhöll — það var hugsjón ungmennanna. En »enginn kemst sofandi að sigri«. Hver sem vildi ná takmarkinu, mátti ekki láta neitt færi ónotað til að efla atgjörvi sína. Hann varð snemma að temja líkama sinn við raunir og sál sína við þrek og snarræði. Þannig var uppeldinu markað svið. Á sama grundvelli hvílir einnig hið fjölskrúðuga samkvæmislíf fornaldarinnar, sem var nokkurs konar áframhald af uppeldi æskulýðsins, mikilvægur menningarmiðill fyrir hina þroskaðri kynslóð. Blótveizlur og erfisdrykkjur eru elztu og atkvæðamestu samsætin, og við þau tíðkuðust ýmsir merkilegir siðir, er miðuðu til að efla þekkingu manna og framkvæmdarþrá.

»Sjálfur leið þú sjálfan þig«. Þessi orð, er höfundur Grógaldurs lætur hina framliðnu móður segja við son sinn, má telja einkunnarorð að uppeldisstefnu fornaldarinnar. Foreldrarnir létu sér að mestu nægja að vekja sjálfsuppheldishvöt drengsins og opna honum þannig veginn til sjálfmenningar, sumpart með frásögnum um dáð og drengskap feðranna, sumpart með því að gefa honum sem optast kost á að vera á mannamótum og koma hon-

um þannig svo að segja í samband við slagæðar þjóðlífsins. Optsinnis stóð drengurinn við kné móður sinnar í dyngjunni, þar sem konur og meyjar »höfðu á skriptum, þats skatar léku« og hjöluðu löngum með hlýrri aðdáun um framaverk kappanna meðan þær »byrðu þau á borða« (þ. e. glitsaumuðu myndir af þeim). Stundum situr hann í höllinni og hlýðir á, er menn »dæma um vopn og vígrisni«, eða hann er staddur á mannfundum, heyrir sagt frá markverðum tíðindum og sér glæsilegar sveitir vopnaðra manna. Brjóst hans svellur af aðdáun. Sjálfstæðishvötin stælist og hvíslar þeirri von í eyra honum:

»Hverr veit nema ek verða
víða frægr of síðir«.

Ímyndunaraflið kemst á ferð og flug. Sál hans dreymir inn í þenna töfraheim, er frásagnirnar opna honum; hann sér sig í anda gnæfa hátt í lyptingu á skrautlegri skeið, vel búinn að vopnnm og klæðum; vindurinn þenur hin stöfuðu segl og flytur vopnglaða vera fram til sigurs og sæmda.

»Þat mælti mín móðir
at mér skyldi kaupa
fley ok fagrar árar,
fara á hring með víkingum
standa upp í stafni,
stýra dýrum knerri,
halda svá til hafnar,
höggva mann, ok annan,«

kveður Egill Skallagrímsson í æsku.

Á margvíslegan hátt speglast framtíðardraumar ungmennanna í leikum þeirra. Þar stælir hver þau störf og atvik, sem honum finst mest um, og vinnur þannig að því, að hugsjónin megi verða að verulegleika. Eg nefni

hér að eins tvö dæmi. Snorri segir frá því í Heimskringlu, að eitt sinn er Ólafur konungur helgi var að veizlu hjá Ástu móður sinni, reikuðu þau úti og komu að tjörn nokkurri. Þar voru fyrir sveinarnir, hálfbræður konungs, og léku leikum sínum. Guttormur og Hálfdan gjörðu sér bæi stóra og kornhlöður og höfðu fjölda búfénaðar. »Þat var leikr þeira.« Skammt þaðan við tjörnina, í leirvík nokkurri, var Haraldur og hafði tréspæni, er hann lét fljóta með landi fram. Konungur spurði, hvað það skyldi. Hann kvað það vera herskip sín. Þá hló konungur og mælti: »Vera kann frændi að þar komi, að þú ráðir fyrir skipum«. Þá kallaði hann á hina og spurði Guttorm: »Hvað vildir þú flest eiga, frændi?« »Akra«, segir hann. »Hversu víða akra mundir þú eiga vilja?« Sveinninn svarar: »Það vildi eg að nesið þetta, er út gengur í vatnið, væri alt sáð hvert sumar«. En þar stóðu 10 bæir. Þá spurði konungur Hálfdán, hvað hann vildi flest eiga. »Kýr«, segir hann. »Hversu margar vildir þú kýr eiga?« Hálfdán segir: »Þá er þær gengi til vatns, skyldu þær standa sem þéttast umhverfis vatnið«. Konungur svarar: »Bú stór viljið þið eiga; það er líkt föður ykkar«. Þá spyr konungur Harald. »Hvað vildir þú flest eiga?« »Húskarla«, segir hann. Konungur mælti: »Hve marga viltu þá eiga?« »Það vildi eg, að þeir æti að einu máli kýr Hálfdánar bróður míns«. Konungur hló og mælti til Ástu: »Hér muntu konung upp fæða, móðir«. Og spáin rættist. Þessi sveinn var Haraldur, er síðar varð konungur yfir Noregi og kallaður hinn harðráði. Lík saga er um barnleika Guðmundar góða og Ögmundar Þorvarðssonar, er síðar varð mikill höfðingi. Þeir höfðu margt ungmenna með sér í æsku, og ávalt fór svo að lokum um leika þeirra, hvað sem til var tek-

ið, »að Guðmundi var gjör mítur og bagall og messuföt, kirkja og altari, og skyldi hann vera biskup í leiknum, en Ögmundi var gjör öxi, skjöldur og vopn og skyldi hann vera hermaður«. — Eptir að drengurinn var kominn vel á legg, vöruðust foreldrarnir að hefta sjálfræði hans meira en nauðsyn bar til. Hann varð að venjast við að kunna fótum sínum forráð og kenna sjálfum sér afleiðingarnar af gjörðum sínum. Leikbræður mátti hann velja sér að sínu skapi. Tiginbornir og jafnvel þrælbornir sveinar leika saman. En væri hörgull á leikbræðrum, réðu foreldrarnir einatt bót á því með öðru af tvennu, að fá syni sínum fóstbræður eða gefa honum sem tíðast kost á að koma saman við sveina úr nágrenninu. Þeim þótti miklu skipta að hann hefðist sem mest við undir beru lopti, rækti líkamsfjör sitt og yki metnað sinn í samkeppni við jafnaldra sína. Opt var þó sveinunum settur einskonar umsjónarmaður eða »fóstri«, og var það að jafnaði trúnaðarþjónn húsbóndans eða nákominn ættingi. Mun það einkum hafa verið ætlunarverk hans að kenna þeim vopnaburð og aðrar íþróttir, er forráðamenn sjálfir fengu því eigi við komið. Ýmist *temur* hann þá *við skotfimi*, kennir þeim að beina ör af streng, *að skjóta skapti* (= spjóti) og *varpa steini*. Mark var reist og kallað *skotspánn*; stóð það allhátt, á hól eða bakka (sbr. »*að fara í skotbakka*«). Spjótkast var einnig æft þannig, að hver skaut að öðrum; var þá um tvent að gjöra, að hitta andstæðinginn og grípa spjót hans á lopti. Fimlegt þótti að kunna að skjóta tveim spjótum senn, með hægri og vinstri. Til skotæfinga voru hafðar oddsljóar örvar (*bakkakólfar*) og spjótsköpt. Steinsnar var æft sakir þess, að með því hófust flestar orustur. Ýmist temur fóstrinn sveinana við *skilmingar*, kennir þeim að *leggja spjóti* (sverði), *höggva*

sverði (öxi) og hlífa sér með skildi. Skilmingar fornaldarinnar voru að mörgu frábrugðnar því, er nú tíðkast; reglufestin var minni. Mikið þótti í það varið, að vera jafnvígur báðum höndum og að geta skipt svo fljótt um vopn í hendi sér með því að kasta þeim í lopt upp, að eigi mætti varast. Stökkfimi (hlaup) kom sér og vel í vopnaviðskiptum; menn stukku undan tilræðum, öfugir aptur á bak eða upp yfir lagið. Margar aðrar íþróttir voru unglingarnir látnir temja sér. En því fer fjarri, að þeir láti sér nægja þá æfingatíma eina, er fóstrinn fylgdi þeim. Upp á eigin spýtur bylta þeir sér úti á víðavangi og leika listir sínar. Vér sjáum þá iðka sund í sjó, vötnum og laugum. Allir muna eptir Kjartani og leikbræðrum hans við Laxá. Það kom sér vel fyrir þjóð, er ól aldur sinn svo að segja jafnt á sjó sem landi, að kunna að grípa til sundtakanna, er skipi hvolfdi eða fjandmennirnir krepptu svo að farmanninum, að ekki var annars kostur en að leita sér lífs með því að hlaupa fyrir borð. Vér sjáum sveinana æfa glímur úti og inni. Má vera að það komi þeim síðar að góðu haldi, ef vopnin bregðast eða eru fjarri þegar óvini skal mæta. Og vér sjáum þá liðka og herða líkama sinn með því að iðka skíðaferðir* leggjahlaup (= skautaferðir), knattleika, klífa í björg og fremja aðrar þoranraunir. Stundum fara fáir sér, stundum sjáum vér stórhópa, er hafa mælt sér mót víðsvegar úr byggðinni til þess að reyna með sér. Slíkir sveinaleikar í stórum stýl áttu sér opt stað á mannamótum. Við knattleikana á Hvítárvöllum, er Egla getur um, gerðu smásveinar sér annan leik.

*) Skíðafars er að vísu eigi getið í Íslendingasögum, en eg þykist mega ráða af ýmsu, að Norðmenn hafi flutt þá íþrótt með sér til Íslands.

Þannig bjó sig hinn uppvaxandi kappi undir ákvörðun sína:

»gunni at heyja
ok glaða örnu«.

Hið röska útivistarlíf í æsku, er lét blóðið duna, stælti vöðvana og styrkti hugann, var forskilyrðið fyrir fræknleik og þreki fullorðinsáranna, þoranraunir þess forskilyrðið fyrir því, að hinn fullorðni gat haft að orðtaki: »Eigi veit ek, hvat hræðslan er!«

## II.
## Íþróttasýningar og þjóðleikir.

**Íþróttir kann ek átta,**
**Yggs fet ek líð at smíða,**
**færr em ek hratt á hesti,**
**hefk sund numit stundum,**
**skríða kann ek á skíðum,**
**skýt ek ok ræ'k, svá nýtir.**
**[Þó lætr Gerðr í Görðum**
**gollhrings við mér skolla].**
**Haraldur harðráði.**

Því fór fjarri, að »sportið« væri lagt á hylluna þegar er þroskaárin tóku við. Afl og fimleikar reyndust í þá daga jafn þarflegt veganesti á lífsleiðinni sem vitsmunir. En því hnignar hverju, er viðhaldið vantar. Meðan fjörið vannst og ellin hafði eigi náð föstum tökum á líkamanum var hver boðinn og búinn til leika. Jafnvel gamlir höfðingjar þreyta þess kyns líkamshreyfingar, er herrar nútímans mundu kalla drengjalæti, t. d. að stökkva yfir skurði, stikla upp veggi o. s. frv. Hvervetna, er fjölmenni var samankomið, í samkvæmum og á þingum,

í hernaði, þegar skip lágu í höfn og lið var á landi uppi, höfðu menn margskonar skemmtun, æfðu fimleika sína og atgjörvi. Opt og einatt voru líka sérstakar samkomur haldnar íþróttanna sjálfra vegna. Það voru eins konar þjóðlegar sýningar, sprottnar af starfsþrá og kappfýsi ungra manna, eins konar opinber próf, er guldu heiður að launum hverjum þeim, er vel fékk staðist, en skömm og skaða þeim, er illa var undir búinn.

Alþing hið forna var ekki einungis alvarleg stjórnmálasamkoma, heldur jafnframt alþjóðleg skemmtisamkoma. Ungir og gamlir, jafnt konur sem karlar, hvaðanæva af landinu útnesja og óbyggða á milli, streymdu þangað búnir bezta skarti og blönduðu hugum. Þar var margur knár drengur kominn, er fýsti að vita, hvað hann mætti sín, fýsti að reyna orku og íþróttir við menn úr öðrum landsfjórðungum. Hann fann aflið vaka í vöðvum sér og brjóstið svella við þá von, að standa sem sigurvegari í augsýn fjölda áhorfenda, lofaður af mönnum og mærður af meyjum. — Lítum norður eftir völlunum upp til Fangabrekku. Gjábarmurinn og brekkan er þéttskipaður fólki, en niðrundan á sléttunni gangast menn að sveitum og glíma. Hvor fylkingin stendur andspænis annari sem í orrustu, öðrum megin Vestfirðingar, hinum megin Norðlendingar; þar er Már sonur Víga-Glúms fyrirliði. Allir hafa kastað bolklæðum til þess að vera sem léttastir, enda má þar sjá margan snaran snúning og fimlegt bragð. Vér þekkjum þar hælkrók og hnykk, klofbragð og sveiflu, leggjarbragð og sniðglímu. »Eina íþrótt höfum vér þó erft af feðrunum; megi hún lengi lifa«, hugsum vér með oss. Allt í einu heyrist óp yfir völlinn. Vestfirðingar eru að því komnir að vinna sigur. Már stendur uppi við annan mann, en margir á móti. Í sama bili ber þar að mann, þrekvaxinn og hvatlegan.

»Gakk til fangs við oss, Ingólfur«, kallar Már; »eg á kosningu!« Ingólfur gjörir svo. Og nú fella þeir félagar hvern að öðrum, þar til er enginn stendur uppi. Þá kveður við annað óp, öflugra en fyr. »Eigi skal svo hátt hrósað sigri þeirra Norðlinganna á næsta þingi«, hugsa Vestfirðingar og hverfa frá. — Skömmu síðar sjáum vér, hvar menn þreyta stökkfimi, bæði á hæð og lengd. Þar ber einn af öllum. »Vel er stokkið«, kalla menn; »en betur gjörði þó Gunnar frá Hlíðarenda, er hann hljóp hæð sína í öllum herbúnaði, og Skarphéðinn, er hann renndi 9 álnir milli ísa á Markarfljóti«. — Þar stendur maður við búðardyr og leikur að handsöxum þremur; er jafnan eitt á lopti. »Handviss maður ertu, Þórður, er þú hendir æ meðalkaflann«, segir félagi hans. »Eða hvort muntu jafnsnjallur Ólafi Tryggvasyni? Hann sá eg eika leik þenna í Noregi og hlaupa samtímis utanborðs á árum, er menn hans reru á Orminum«. — Annan dag eptir verður oss reikað niður með Þingvallavatni. Þar þreyta menn sund, en aðrir horfa á á landi. Oss þykir það einkennilegt við þessar sundfarir, að fáir reyna, hver lengst megi synda á sama tíma, heldur miðar samkeppnin að því, að kaffæra hver annan. Lítum á þessa tvo rösklegu menn, er steypa sér í vatnið í þessari svipan. Annar er í dökkum, hinn í hvítum sundfötum. Þeir synda lengi í kafi sem selir. Loks koma þeir upp, líta hvor til annars og ráða saman. Ljósklæddi sundmaðurinn rekur hinn í kaf, og eru þeir niðri um hríð; koma síðan upp og taka hvíld. Annað sinn seilist hann til félaga síns og vill færa hann niður, en hinn dökkklæddi bregður við skjótt og keyrir hann undir sig. Eru þeir nú sýnu lengur niðri en fyr. Í þriðja sinn hverfa þeir í kaf, og nú þykir oss örvænt um að þeim endist andrúmið. Upp koma þeir þó að lokum, og snýr hinn

ljósklæddi þegar til lands lítt sjálfbjarga, en félagi hans leikur enn marga leika, þá er mönnum er títt að leika á sundi.

Hestaþing. Að etja saman stóðhestum til vígs og sjá þá bítast og berjast var vinsæl skemmtun meðal fornmanna. Síðari hluta sumars, er hestarnir höfðu gengið frjálsir um haga með hryssum sínum og voru allra ólmastir, stofnuðu menn til slíkra skemmtana, ýmist í sambandi við leiðarþingin, en optar voru þó sérstakar samkomur haldnar í því skyni. Og fáar voru fjölsóttari í héraði. Jafnskjótt sem það kvisaðist að einhver, er góður þóttist af hesti sínum, hafði boðið öðrum hestaat, varð uppi fótur og fit um allt héraðið. Í stórhópum riðu karlar og konur til samkomustaðarins, er jafnan var kjörinn á sléttum grundum eða melum, og biðu þess óþreyjufullir, að skemmtunin byrjaði. Enda mátti einatt búast við, að fleira yrði til tíðinda en hestavígin ein, ef ofurkappsmenn áttu í hlut. Einkum var þó margt um manninn, er etja skyldi öllum víghestum, er til voru í héraðinu, eða með öðrum orðum, er heilir hreppar leiddu saman hesta sína. Áhorfendurnir skipuðust í hring um hvert vígsvæði, og var lögboðið, að hver skyldi ábyrgjast sig sjálfur fyrir meiðslum af hálfu hestanna. Víghestarnir eru nú leiddir fram og látnir rennast að tveir og tveir innan í mannhringunum víðs vegar um völlinn. Þeir rísa upp á afturfæturna, bítast og slást, fnæsandi og hvíandi. Þykir mönnum það góð skemmtun. »Maður fylgir þar hverjum hesti, er fram er leiddur, og hefir staf (hestastaf, hestastöng) í hendi og klappar á lend hestinum og þar með styður hann hestinn, þá hann rís« (Bisk. I 633). Það er eigandinn sjálfur eða einhver sá, er hann treystir betur til keyrsl-

unnar fyrir afls sakir og stillingar. Hann ríður þá stundum sjálfur umhverfis svæðið og horfir yfir af hestbaki. Til þess að gjöra hestinn ólmari og áræðismeiri við vígið, voru hryssur hans hafðar bundnar í nándinni. Að þessu lúta svívirðuorð Finns Árnasonar við Harald harðráða, er hann spurði, hvort jarl vildi þiggja grið af Þóru drottningu, frænku sinni: »Eigi er furða þótt þú bítist vel, er merrin fylgir þér!« Þar sem frábærlega góðir víghestar áttust við, stóð einatt lengi á viðureigninni; þeir gengust að margar lotur og voru látnir taka hvíld á milli. Sigurinn var unninn, er annar rann eða hné til jarðar. Varð þá óp mikið. Mætti trauðla á milli sjá, hvor sigrað hefði, var það lagt undir atkvæði manna, er kosnir höfðu verið í því skyni áður en atið hófst. Yrði enginn munur gjörður var vígið jafnvígi. En því fór fjarri, að hestaþingin færu ætíð svo friðsamlega fram, að afl hestanna fengi að ráða úrslitum. Þeir er keyrðu beittu einatt ýmsum hrekkjum, er þeir sáu hest sinn fara halloka; þeir lustu hest andstæðingsins eða stungu hann af taki með staf sínum. En eigi gjörðu það aðrir en ójafnaðarmenn, nema ef illu var að mæta; þá hlífðist enginn við að gjalda líku líkt svo sem að hlaupa á lend hestinum og hrinda honum, svo að hinn féll einatt aptur á bak ofan á keyrslumann og þá, er honum vildu hjálpa. Komst þá allt í uppnám; maður hélt á manni, en aðrir slógust með hestastöfunum, er þeir náðu eigi til vopna.

»Hér verðr þröng á þingi,  
þóf gengr langt úr hófi;  
síð mun sætt með þjóðum  
sett. Leiðisk mér þetta.  
Rakklegra er rekkum  
rjóða sverð í blóði.

Víst tem ek gráð hinn geysta
gjarna ylgjar barni,«

kveður Skarphéðinn. Hversu altítt það var, að ójafnaður við hestavíg yrði fornmönnum orsök til fjandskapar og mannvíga, má meðal annars ráða af orðum Víga-Glúms um Eyfirðinga: »Svo lýkur hér hverju hestaþingi!« Atið var eigendum hestanna hin mesta metnaðarsök. Það þótti eigi smálítill heiður að eiga beztan víghest í héraðinu; töldu menn það vott um búrausn og höfðingsskap. Enda voru góðir víghestar í afarháu verði. Þeir voru stríðaldir á vetrum og gengu sjálfala á sumrum. Eigendurnir ræktu þá með óþreytandi alúð; opt og einatt sjáum vér þá ganga til þeirra út í haga, snotra þá, kemba og klippa. Og vildi einhver vanda vini sínum gjöf, var fátt betur þegið en gott stóð.

Hestaþingin voru þannig hvorttveggja í senn, gaman og alvara. Þau skemtu alþýðu manna og gáfu henni kost á að hressa hugann við mannfundi, en jafnframt glæddu þau áhuga bænda á hestarækt og búnaði yfir höfuð. Og þótt margt megi að þeim finna, þá verður því þó ekki neitað, að afdrifamiklar samkomur voru þau fyrir þjóðlífið. — Síðustu hestavíg á Íslandi, er sögur fara af, stóðu árið 1623.

Knattleikar. Sumarið er liðið; þingmál, verzlun, heyannir og önnur umsvifamikil störf um garð gengin. Veturinn, næðissamasti tími ársins, stendur fyrir dyrum. En hvað skal mönnum í blóma lífsins að sitja aðgjörðalausir heima? Þegar ísa leggur á vötn og pela í jörð, stofna þeir til leika. Optast eru það knattleikar. Einatt héldust leikæfingar lengi vetrar, þannig að menn komu saman af ýmsum bæjum á ákveðnum stað þegar veður leyfði og héldu heim að kvöldi. Það bar og eigi allsjaldan við, er menn sóttu til

um allt héraðið, að sumir byggðu sér skála og lágu við vikum saman; var það þeim mun eðlilegra sem l e i k m ó t i ð stóð víða á sama stað ár eptir ár. »Það var siður Breiðvíkinga á haustum«, segir Eyrbyggja, »að þeir höfðu knattleika um veturnáttaskeið undir Öxl suður frá Knerri, — þar heita síðan L e i k s á l a v e l l i r, — og sóttu menn þangað um alla sveitina; voru þar gjörðir leikskálar miklir; vistuðust menn þangað og sátu hálfan mánuð eða lengur«. Stundum stóðu leikarnir aptur á móti ekki yfir nema einn eða örfáa daga. En þá voru þeir þeim mun fjölsóttari, eins konar alþýðlegar skemmtisamkomur, er menn söfnuðust til »víða um héruð«. Gildir bændur eða heldri manna synir gengust fyrir slíkum leikmótum og ákváðu samkomustað í námunda við bæ sinn, ef staðhættir leyfðu. Lét bóndi einatt veita gestum góðan beina á sinn kostað. Þess er getið í Laxdælu, að hinn auðugi bóndason Hallur Guðmundarson í Ásbjarnarnesi, stofnaði til knattleika við bæ föður síns. Kom þar til mikið fjölmenni »vestan úr Miðfirði, af Vatnsnesi, úr Vatnsdal og austan úr Langadal«. Og um kvöldið, er leik var lokið, stendur Hallur upp og segir það boð föður síns að allir þeir, er lengst hafi til sótt, dvelji þar næturlangt, til þess að taka megi til skemtunar þegar að morgni. »Var þar aukið hundrað (þ. e. yfir 120) manna á búi um nóttina«. Slík fjölmenn knattleikamót voru líka opt í sambandi við haustboð stórbændanna eða leiðarþingin. L e i k v ö l l völdu menn sér sem sléttastan og harðastan, til þess að knötturinn mætti stökkva sem bezt. Tíðast var leikið á ísi, á tjörnum, fljótum og fjörðum. Væri íss eigi kostur, fór leikurinn fram á sléttum harðvellisbala. Áhorfendur skorti sjaldnast, því að »mörgum var forvitni á að sjá leikinn, og vita, hver sterkastur væri eður l e i k m a ð u r beztur«. Skipuðust þeir umhverfis svæðið á hóla og börð,

þar sem vel mátti sjá yfir; eða menn sátu á bekkjum og stólum. Hversu mikið fjölmenni einatt var viðstatt, má ráða af leikmótinu í Ásbjarnarnesi og ótal öðrum heimildum. Kvennþjóðin lét sín eigi saknað; löngunin til að sjá hraustlegt atferli fríðra sveina heillaði hana og einatt réð ástin förinni. »Allar vildu meyjar með Ingólfi ganga«. Það var við knattleika í Grímstungum að þau Valgerður kyntust. Og gamlir menn, sem voru að vísu orðnir of ellimóðir til að þreyta leik við brjóstheilan æskulýðinn, töldu eigi eptir sér að koma á mótin er kostur gafst; þeir unnu íþróttunum sem í æsku og þótti gaman að sjá, hverjir knástir væru ungu mannanna. Til þess að stýra leiknum og gæta þess að allt færi sem friðsamlegast fram, var kjörinn formaður eptir örleik og atgjörvi. Hefði einhver einn stofnað til leikanna, var hann sjálfkjörinn. Hann skipti til leiks þ. e. hann skipti leikmönnum í tvær jafnar sveitir, nema slíka tvískiptingu leiddi af sjálfu sér, svo sem þá er íbúar tveggja héraða reyndu með sér; því næst var skipað saman tveimur og tveimur þeim er jafnsterkastir voru. Það voru kraptar, er leikslokin einkum voru komin undir. Væri einhver sá meðal leikmanna, er langt bar af hinum að styrkleika, var gjört annað af tvennu; að hann var látinn sitja hjá eða leika móti tveimur. Til að firra vandræðum var einatt þeim, er kunnir voru að ofstopa, meinuð hluttaka í leiknum, þótt eigi væru afarmenni að burðum. Hver sveit tók sér nú stöðu andspænis annari, og lékust við tveir og tveir. Þeir höfðu báðir í sameiningu knatttré og knött úr tré eða málmi, eigi stærri en svo, að grípa mátti annari hendi. Kipphorn að baki hverjum leikanda var merkilína, þvert yfir sviðið. Í leiksbyrjun hefur annar bæði knöttinn og tréð. Hann kastar upp knettinum og slær hann á lopti með trénu annari hendi

sem fastast hann má. Vinningurinn er undir því kominn fyrir hann að knötturinn fljúgi eða skoppi út yfir markið áður en sá, er móti leikur, hendir hann (sbr. bera út knöttinn, slá út knöttinn). Hrykki höggið eigi til, varð hann að vera viðbúinn að bregða á rás og reyna að reka út knöttinn fyrir hinum. Heppnaðist aptur á móti þeim, er úti var, að ná knettinum eða reka hann undan sér til þess staðar, er hann var sleginn, hafði hann unnið leikinn og skyldi nú vera inni með knöttinn og tréð. — Þannig virðist aðalleikaðferðin að hafa verið; en þó kunna ýmis afbrigði að hafa átt sér stað, einkum ef fleiri lékust við (sbr. Fornaldars. III 264). Hvernig á því stóð, að mönnnum lenti einatt saman í glímur og ryskingar, er nú auðsætt. Menn gátu eigi stillt sig um, að tálma hvor öðrum með handalögmáli er þeir eltust um knöttinn.

Engum getur dulist, að knattleikarnir fornu, jafnmikið sem þeir voru tíðkaðir á Íslandi, hlutu að hafa víðtæk áhrif á tilveru þjóðarinnar. Þeir voru vörn gegn vetrardrunganum, héldu sálunni vakandi og líkamsfjörinu kviku. Og auk þess voru þeir þýðingarmiklir fyrir viðskiptalífið; menn hittast þar að málum, eigast við kaup og sölur, semja um giptingar o. s. frv.

## III.

## Veizlugleði.

Um vápn dæma
ok vígrisni
sigtívasynir.
Lokasenna.

»Maður er manns gaman« var orðtak fornmanna. Þeim var það í blóðinu borið að vera gefnir fyrir

mannfagnað, enda er gestrisni eitt af aðaleinkennum þeirra. Frá því í fyrndinni hafði guðsdýrkun Norðurlandabúa haft í för með sér mörg og mikil veizluhöld. Höfuðblót voru þrjú á ári, haustblót, jólablót (eða miðsvetrarblót) og sumarblót. Menn sóttu til blótstaðanna um heil héruð, gjörðu sér veizlu við kjöt fórnardýranna, en höfðu drykk með sér að heiman; voru slíkar veizlur nefndar samburðaröl. Í nánu sambandi við hinar fornu trúarhugmyndir stóðu einnig erfisdrykkjurnar, er erfingjar urðu að halda að heimilisföðurnum látnum áður þeir væru rétt komnir til arfs. Annara mikilvægra atburða í heimilislífinu var og minnst hátíðlega. Þegar mær lofaðist manni, var drukkið festaröl, og þá var líka innan skamms brúðkaupsveizla í vændum. Þegar höfðingi býst að heiman í víking eða kaupferðir, drekkur hann brottferðaröl sitt, og þegar hann kemur heim aptur, sæmdur sigri og auð, er honum búið fagnaðaröl af vinum og frændum. Auk þessara siðbundnu samkvæma, tíðkuðust auðvitað mörg önnur veizluhöld við tækifæri. Á Íslandi ber lítið á blótveizlum, en því meir á ættmenna- og vina-boðum. Það virðist hafa verið siður flestra heldri bænda að halda haustboð, og eiga þau boð ef til vill rætur að rekja til haustblótanna í Noregi.

Eptir að heiðnina líður, verða að vísu ýmsar breytingar á samkvæmislífinu, einkum að því, er tilefni samkvæmanna snertir; en svo er um hinar fornu veizluskemmtanir sem um svo marga aðra heiðna siði; þær áttu sér enn allflestar langan aldur.

Þess er getið um Ólaf pá, er hann vildi halda erfi eptir Höskuld föður sinn, að hann gekk fram á Lögbergi og bauð til ekki einungis frændum og vinum, heldur hverjum, er þiggja vildi. Enda er mælt að rúmlega þús-

und manns kæmi til boðsins, og hafi það verið fjölmennust veizla á Íslandi »önnur en sú, er Hjaltasynir gjörðu erfi eptir föður sinn; þar voru 12 hundruð (= 1440)«. Slíkar veizlur voru að vísu eins dæmi, en þó er víst um það, að fjölkvæmt var einatt í veizlum fornmanna. Og opt stóðu þær dögum saman. Auðæfin skorti eigi, og þrælarnir önnuðust bústörfin meðan hinir frjálsbornu skemmtu sér.

Í svo langvinnum veizlum var eðlilegt, að skemmtanirnar yrðu töluvert tilbreytingamiklar. »Margs konar leikar voru að þessari veizlu«, er viðkvæðið í sögunum. Á daginn voru menn einatt að útileikum, við glímur, knattleika eða sund. En er borð voru upp tekin að kveldi og öl var inn borið, hófst ýmisleg ö l t e i t i. »Þótti mönnum gott til gleði að drekka margir saman«. Glópaldi var hver sá nefndur, er þá hnepti höfði í feld sinn.

Glaðr ok reifr
skyli gumna hverr,
unz sinn bíður bana.

Menn drukku mörg f u l l, bæði goðanna, virðulegra gesta og framliðinna frænda. Þau nefndust m i n n i. Þegar konur voru eigi við, drukku allir saman; var það kölluð s v e i t a r d r y k k j a, og fór þannig fram, að hver skyldi tæma það horn einn, er ö l s e l j a n bar honum (d r e k k a e i n m e n n i n g), eða tæma það t i l h á l f s og rétta síðan yfir eldinn, er brann í steinþró á endilöngu gólfi, einhverjum þeim á bekknum andspænis, er hann helzt vildi d r e k k a á (sbr. s i t j a f y r i r á d r y k k j u e—s). Væru konur viðstaddar, kom stundum t v í m e n n i n g u r í stað sveitardrykkju. Þá er Egill Skallagrímsson sat veizlu hjá Arnfinni jarli, »kvað jarl skyldu sæti hluta, skyldi drekka

saman karlmaður og kona, svo sem til ynnist, en þeir sér, er fleiri væru. Menn báru þá hluti sína í skaut, og tók jarl upp; jarl átti dóttur allfríða og þá frumvaxta; svo sagði hlutur til, að Egill skyldi sitja hjá jarlsdóttur um kveldið«. Í Ynglingas. getur Snorri þess, að það var siður víkinga að drekka sveitardrykkju, þótt þeir væru að veizlum. En er Hildigunnur gekk fyrir Hjörvarð konung með silfurkalk í hendi og mælti: »Allir heilir, Ylfingar, að Hrólfs minni kraka«, kaus hann heldur að láta víkingalögin og drekka tvímenning við hana. »Hann tók kalkinn og hönd hennar með«.

Margt var haft að ölmálum. Menn ræddu um afrek og atgjörvi nýtra drengja, um vopn og víkingar. Ýmist skemmti einn öllum með því að segja frá ferðum sínum. Svo var um Kjartan í brúðkaupi þeirra Hrefnu. Eða sá gekk fram, er sögur kunni að segja frá framaverkum feðranna. Honum er fenginn stóll í miðri stofu, þaðan er bezt má heyra. Og jafnskjótt verður hljóð í höllinni. Hin »drengilegu verk og frækilegu framkvæmdir«, er frásagan hljóðaði um, voru í ætt við gjörðir áheyrandans eða spegilmyndir af hugsjónum hans. Þau brugðu upp frægðarljóma ættanna og bentu niðjunum á þá braut, er leiddi til vegs og frama. Og því létu menn ekki þreytast að hlýða á. Marga mun reka minni til Íslendingsins í höll Haraldar harðráða, er skemmti konungi og hirðinni með sögum frá haustnóttum til þess fram yfir jól. Við brúðkaup á Reykhólum árið 1119 var sagnaskemmtun aðalveizlugamanið. Ingimundur prestur og Hrólfur frá Skálmarnesi segja þar heilar fornsögur hvor í kapp við annan. Ótal fleiri dæmi mætti telja, er sýna, hversu mjög fornmenn unnu sagnaskemmtun. Þeir völdu henni virðingarheitin híbýlabót og borðprýði. Enda eiga líka sagnabókmenntir vorar þangað rót sína að rekja. — Sama er að segja um

k v e ð s k a p. Skáldið var hvervetna mikilsvirður gestur. Þegar hann sté fram á hallargólfið og flutti snjalt og skörulega kvæði eptir sjálfan sig eða aðra um sigursæld og örlæti glæsilegra kappa að fornu og nýju, vakti hann yndi í hvers manns brjósti. Hversu opt sýna sögurnar oss eigi þessi óskabörn fornaldarinnar sæmd auð og heiðri í höllum tiginna manna. Og heima á Íslandi spöruðu skáldin ekki að s k e m m t a k v æ ð u m í samsætum. Þannig eykur Úlfur Uggason veizlugleðina við brúðkaup Þuríðar Ólafsdóttur í Hjarðarholti með því að yrkja drápu um veggmyndirnar í hinum nýja veizluskála Ólafs pá og flytja þar að boðinu.

Auk þessara tveggja aðalskemmtana í veizlusölum fornmanna, má geta ýmsra ö l s i ð a, er koma fram sem reglubundnir leikir. Flestir hvíla þeir á sama grundvellinum: sagnaástinni og afreksmetnaðinum.

»A ð d e i l a o r ð s p e k i« var andleg kappþraut milli tveggja manna í samsætinu, en aðrir hlýddu á. Ýmist var það markmiðið að vita hvor f r ó ð a r i væri. Spurði hvor annan spjörunum úr um fornar sagnir, unz í vörðurnar rak. Dæmi þess er kvæðið Vafþrúðnismál. Ýmist reyndu menn o r ð f i m i sína og viturleik, skiptast á dulmælum og óljósum frásögnum eða báru upp g á t u r. Slík dægrastytting, er hné að því að skerpa skilninginn og efla athyggjuna, hlaut að vera skynsemisþjóð fornaldarinnar vel að skapi. Enda sýna gátur Gestumblinda og aðrar, er geymst hafa frá fornheiðnum tíma víðsvegar um Norðurlönd, að fornmönnum lét vel sú list að yrkja gátur. Hvert mannsbarn kannast við gátuna um vindinn og drífuna:

Fuglinn flaug fjarðralaus,
settist á vegginn beinlaus;

þá kom maður handlaus,
og skaut fuglinn bogalaus.

Og allvel þykir oss Gestumblinda farast orð, er hann reynir getspeki Heiðreks konungs, t. d. er hann segir:

Hverr byggir há fjöll?
Hverr fellr í djúpa dali?
Hverr andalauss lifir?
Hverr æva þegir?

Mannjöfnuður var líka einskonar kappræður, þar sem ágæti tveggja manna var jafnað saman. Bærust einhverjir atkvæðamenn í tal við drykkinn, hófust einatt umræður um, hvor fremri væri. Sjaldnast urðu allir á eitt sáttir; einn lofaði þenna, annar hinn. En þetta var nú í rauninni ekki eiginlegur leikur. Það var mannjöfnuðurinn aptur á móti, er hver og einn skyldi taka sér jafnaðarmann. Hann valdi þá einhvern, er hann helzt þóttist mega jafna sér við, og færði rök fyrir valinu. Væru báðir jafnaðarmenn viðstaddir, spunnust einatt langar kappræður milli þeirra; hvor í kapp við annan lofuðu þeir ætt sína og íþróttir, afrek og manngildi, ýmist í ljóðum, ýmist í óbundinni ræðu. Ella svöruðu aðrir fyrir hönd þess, er eigi var við[1]. Það er eðlilegt, að

1) **Merkasta dæmi þessa ölsiðar er deila þeirra bræðra, Sigurðar konungs Jórsalafara og Eysteins (Hkr. III 291—4). Eitt kvöld, er þeir voru saman að veizlu, var munngát slæmt og menn hljóðir. Brýtur Eysteinn þá upp á því að hafa mannjöfnuð að ölteiti: „mun ek taka þik, bróðir, til jafnaðarmannz mér. Færi ek þat til, at jafnt nafn höfum vit báðir og jafna eign; geri ek engi mun ættar okkarrar eða uppfæzlu". Þá svarar Sigurðr konungr: „Mantu eigi þat, er ek braut þik á bak, ef ek vilda, ok vartu vetri eldri?" „Eigi man ek hitt síðr", segir Eysteinn, „er þú fekt eigi leikit þat, er mjúkleikr var í". „Mantu, hversu fór um sundit með okkr; ek mátta kefja þik ef ek vilda". Eysteinn segir: „Eigi svam ek skemra en þú, ok eigi var ek verr**

mörgum yrði heitt í hamsi við mannjöfnuðinn, ef í alvöru sló. Enda bar það eigi allsjaldan við, að fjandskapur kviknaði af, er leiddi til að jafnaðarmennirnir bárust á banaspjót fyr eða síðar.

Eins konar mannjöfnuður var og sá leikur, að hver gestanna skyldi tilgreina þá íþrótt, er honum léti bezt.

kafsyndr; ek kunna ok á ísleggjum, svá at engan vissa ek þann, er þat kepti við mik, en þú kunnir þat eigi heldr en naut". Sig. segir: „Höfðingligri íþrótt ok nytsamligri þykki mér sú, at kunna vel á boga; ætla ek at þú nýtir eigi boga minn, þótt þú spyrnir fótum í". Eyst. svarar: „Ekki em ek bogsterkr sem þú, en minna mun skilja beinskeyti okkra, ok miklu kann ek betr á skíðum en þú, ok hafði þat verit enn fyrr kölluð góð íþrótt". Þá telur Sigurður sér til gildis, að hann sé höfðinglegri maður í flokki og betur vopnfær. Eysteinn jafnar þar til fríðleika sínum og mælsku. Sigurður kveðst meta lítils lögpretti og sléttmælgi, er orðheldnina vanti. Eysteinn kveðst hyggja að því að ljúka svo hvers manns máli, að honum mætti bezt þykja; „en sé ek hinn kost, ef ek vil hafa, at heita öllum illu, en engan heyri ek efndanna frýja". Þá minnist Sigurður á Jórsalaferð sína, er talin hafi verið „heldr höfðinglig, en þú sazt heima meðan sem dóttir föður þíns". Eyst. svarar: „Nú greiptu á kýlinu; eigi mynda ek þessa ræðu vekja, ef ek kynna hér engu at svara; nærr þótti hinu, at ek gerða þik heiman sem systur mína, áðr þú yrðir búinn til ferðar". Sigurður segir: „Heyrt munt þú hafa, at ek átta orrustur margar í Serklandi ok fekk í öllum sigr ok margs konar gersimar, er eigi hafa slíkar komit hingat til lands; þótta ek þar mest verðr, er ek fann göfgasta menn, en ek hygg, at eigi hafir þú enn hleypt heimdraganum". Eysteinn kveðst ætla hitt nytsamara landi og lýð er hann reisti kirkjur, gjörði hafnir og byggði sæluhús á fjallvegum, meðan bróðir hans „brytjaði blámenn fyrir fjándann úti á Serklandi". Þá svarar Sigurður, að hann hafi riðið Eysteini knút í kjarrinu hinum megin Jórdanar og ætlað honum að leysa eða hafa smán ella. Eyst. konungur segir: „Eigi mun ek leysa þann knút, er þú reitt mér, en ríða mátta ek þér þann knút, er miklu síðr fengir þú leyst, þá er þú sigldir einskipa í her minn, er þú komt í land". Eptir þat þögnuðu þeir, ok var hvártveggi reiðr".

Varð það að jafnaði tilefni til almennrar íþróttasýningar næsta dag.

Fulltrúaleiks er getið í Glúmu. Eitt kvöld, er menn voru mettir, stakk Glúmur upp á því til skemmtunar, að menn skyldu taka sér fulltrúa; »mun eg kjósa fyrst, og eru þrír mínir fulltrúar, einn er fésjóður minn, annar öxi mín, þriðji stokkabúr«. Þá kaus hver að öðrum. »Hvern kýs þú, Ingólfur?« segir Glúmur. Hann svarar: »Þorkel á Hamri«. Þá spratt Glúmur upp og var reiður. Og við það dettur botninn úr leiknum. En áframhaldið er auðsætt. Þegar allir höfðu nefnt það, er þeir töldu sér helzt traust að, hvort heldur menn eða hluti, tóku menn að jafna »fulltrúunum« saman. Leikurinn var kappræðuleikur, svipaður mannjafnaði.

Einhver merkasti ölsiðurinn voru heitstrengingarnar. Þær áttu sér einkum stað við erfisöl og jólablót og fóru fram að bragarfulli[1] þ. e. um leið og drukkið var minni hins látna eða goðs þess er blótað var. Menn stóðu upp úr sætum sínum, fyrst hinn tignasti og síðan hver að öðrum, stigu fæti á pallbrúnina eða eldþróna, réttu upp hornið og sögðu fram heit sitt með formálanum: »Stíg eg á stokk (stein) og strengi eg þess heit, að eg skal .... eða deyja ella«. Önnur aðferð var sú, að leggja aðra höndina á höfuð, en hina á burstir gelti, er helgaður var Frey og nefndur sonargöltr; var hann leiddur inn í stofuna í því skyni. — Þessi ölsiður er náskyldur mannjöfnuði og átti sem hann rót sína í afrekshvötinni, lönguninni til að lypta sér upp yfir miðlungshófið og framkvæma eitthvað það, er bera mætti nafn vinnandans fram yfir aldirnar og jafnframt sýna samtíðinni, að hann væri ekkert ör-

1) Bragr = sá, er ber af öðrum og bregður sæmd yfir hóp sinn (sbr. „bragr kvenna“, um Brynhildi, og Ásabragr um Þór).

verpi ættar sinnar. Efni heitisins var því jafnan, að vinna eitthvert framaverk innan tiltekins tíma eða láta lífið að öðrum kosti. Margur var sá, er kunni ekki kröptum sínum hóf við slík tækifæri. Heitur af drykk og hetjumóð hét hann að leysa af hendi verk, er voru honum ofvaxin. Enda kom iðrunin einatt að morgni, er ölvíman var runnin og kappið dofnað. Hvern rekur eigi minni til Jómsvíkinga, er Sveinn konungur tjúguskegg tælir með sterkum drykk og stórum orðum til að strengja þess heit, að fella Hákon Hlaðajarl eða flæma hann úr landi? En allt um það var þessi ölsiður einkar þýðingarmikill að því leyti, er hann efldi mjög starfsþrá manna og framtakssemi.

Kýmnislund og hæðni fornmanna, er bregður svo víða fyrir í sögunum, lýsti sér ekki sízt í ölmálum þeirra. Glettnar glósur fuku í hendingum bekkja á milli, og vei þeim er eigi var skjótur til svars.

»Hvaðan kennir þef þenna?
Þórðr andar nú handan!

kveður Ingimundur prestur til Þórðar Þorvaldssonar í brúðkaupinu á Reykhólum, sem áður er getið. Þessi lyndiseinkunn, að hafa glöggt auga fyrir hinu hlægilega við menn og málefni og gjöra sér það að gamanræðum, kemur fram í leik þeim, er nefndist syrpuþingslög (syrpa = sorp, syrpuþing = lélegt, hlægilegt þing). Það var eins konar sjónleikur, er hafði að efni að gjöra gys að málatraðki manna á þingum, einkum þeirra, er miklar sögur fóru af. Þess er getið í Ljósvetningasögu, að Vöðu-Brandur hafi fyrstur fundið þenna leik. Hann minnir oss einnig á það atriði í Njálu, er börn leika málaferli þeirra Hrúts og Marðar gígju.

Töfl hafa jafnan þótt vel til þess fallin, að skerpa

skilninginn og gjöra hugsunina snara í snúningum. Oss furðar því ekki, þótt fornmenn hefðu miklar mætur á þeirri skemmtun, því að hverjum er fremur þörf á að þróa snarræði sitt og glöggskyggni en þeim, er lifa á herskáum tímum og mega búast við hættu í hverri gætt? Frá því fyrsta, er oss opnast útsýn yfir tilveru fornþjóðar Norðurlanda, sjáum vér taflið skipa sæti meðal vinsælustu dægrastyttinga hennar í tómstundum, bæði heima fyrir og í hernaði. Ótal menjar frá víkingaöldinni bera þess vott. Taflið var einatt meðal þeirra kjörgripa, er fylgdu hinum framliðna kappa undir græna torfu. Og goðafræðin sýnir, að þjóðina rankaði við þessari skemmtun frá ómuna tíð. Í árdaga sátu Æsir á Iðavelli og »tefldu teitir í túni«. Og eptir ragnarök (= heimsendi), þá jörð er runnin úr ægi öðru sinni

»munu undrsamlegar,
gullnar töflur
í grasi finnask«

og koma hinni nýju goðaætt að góðu haldi. Í fornsögum Norðurlanda er það altítt um kappana, er þeir halda kyrru fyrir, að þeir sitja að taflborði. Þegar sendimenn Ellu Englakonungs færa Loðbrókarsonum fregnina um dauða föður þeirra í ormagarðinum, eru þeir að tafli Hvítserkr og Björn. Og er sendimenn herma hinnstu orð Ragnars: »gnyðja mundu nú grísir, ef galtar kvöl vissu«, kreistir Hvítserkr taflmanninn, er hann hélt á, svo fast, að blóð stökk undan hverri nögl. Fræg er einnig frásögnin um tafl þeirra Friðþjófs og Björns á Framnesi. Þá er taflskemmtunar eigi sjaldnar getið á söguöldinni. Tiginn og ótiginn, karl og kona, leika þá list. Þegar Hallfreðr kom úr sendiför þeirri, er hann skyldi sækja augu Þorleifs spaka, hittir hann Ólaf konung við taflborðið. Þorkell Geitisson í Krossavík hefur

það sér til afþreyingar, er hann liggur í sárum, að horfa á þegar aðrir tefla. Harðarsaga getur vinnumanna, er tefldu á heylopti úti í fjósi. Og hversu opt veitti eigi tafllistin elskendunum kærkomið færi á að dvelja saman! Gunnlaugur og Helga léku að tafli í æsku.

Hversu margs konar töfl tíðkuðust í fornöld, vitum vér eigi með vissu. En svo mikið er víst, að aðaltaflið á söguöldunum var h n e f a t a f l (eða h n e f t a f l)[1]. Um það höfum vér fyllstar upplýsingar í Hervararsögu:

»Hverjar' eru þær drósir
er um sinn dróttin
vápnalausar vega;
enar jörpu hlífa
alla daga,
enn enar fegri fara? —

Þat er hneftafl, töflur drepast vápnalausar um hnefann, ok fylgja honum hinar rauðu.

Hvat er þat dýra,
er drepr fé manna
ok er járni kringt útan;
horn hefir átta
enn höfuð ekki
ok rennr, er má? — —

Þat er húnn í hnefatafli; hann heitir sem björn; hann rennr þegar er honum er kastat«. — Beri maður nú þessar upplýsingar saman við jarðfundnar taflmenjar frá fornum tíma, þá getum vér sagt með vissu um hnefataflið: Það var leikið á borði, er skipt var í ferhyrnda r e i t i, með kringlóttum plötum úr gleri eða steini, er nefndust t ö f l u r eða t a f l i r (eint. t a f l a eða t ö f l). Annars vegar á borði voru ljósar töflur, hins vegar dökkar og með þeim eins konar kongur, er kallaður var h n e f i. Af honum dró taflið nafn. Og um hann snerist leikurinn; dökku töflurnar vörðu hnefann, en hinar ljósu sóttu

1) Tillíking af þessu heiti er orðið hne*t*tafl, sem táknar því eigi sérstaka tafltegund (sbr. Skýrsla um Forngripasafn Íslands, 1863.

á. Teningskast réði, hvernig leika skyldi, og nefndist teningurinn h ú n n. Hvernig gangurinn var í taflinu er oss allsendis ókunnugt. Vér vitum ekki einu sinni töluna á töflunum með neinni vissu. — Í t r e k s t a f l s er einnig getið í Hervararsögu, en annars er það óþekkt. — Elzta fregn um s k á k t a f l á Norðurlöndum, sem takandi er mark á, er frásögn Snorra í Heimskringlu um tildrögin til, að Knútur ríki lét drepa Úlf jarl mág sinn. Einn dag haustið 1027, er jarl hafði búið konungi veizlu í Hróarskeldu, var hann fámálugur og heldur ófrýnn. Þá spurði jarl, hvort hann vildi l e i k a a t s k á k t a f l i. Og er þeir tefldu, lék konungur slæman leik (»l é k f i n g r-b r j ó t m i k i n n«); þá s k æ k ð i (= skákaði) jarl af honum r i d d a r a; konungur bar aptur t a f l hans og segir að hann skyldi annað leika; jarl reiddist, skaut niður t a f l b o r ð i n u, stóð upp og gekk burt. »Rennur þú nú, Úlfur hinn ragi!« mælti konungur. Jarl snerist aptur við dyrnar og mælti: »Lengra mundir þú runnið hafa í Ánni helgu, ef þú hefðir því við komið, er Svíar börðu yður sem hunda!« Knýtlinga lætur Valdimar Knútsson sitja að skáktafli, er Sveinn svíðandi veitir þeim Knúti aðsókn í Hróarskeldu (1157). Aronssaga getur skáktafls í Noregi 1238; tefla þar saman Norðmenn og Íslendingar. Á Íslandi er þess getið víða á 13. öldinni. Árið 1241 er þess getið um Þorgils skarða, að hann varð eitt sinn ósáttur við Sám frænda Gizurar Þorvaldssonar út úr tafli. Sámur vildi b e r a a p t u r r i d d a r a sinn, er hann hafði teflt í u p p n á m, en Þorgils vildi eigi leyfa. Í tíð Bótólfs biskups hins norræna á Hólum (1238—46) bar svo til eitt sinn á jólum, að djáknar tveir sátu og tefldu. Biskup kom og leit á; gat hann ekki að sér gjört að segja öðrum til. En er hinn sá, að hann var kominn að máti, reiddist hann og mælti: »Betra er þér Bótólfur að fara út í kirkju og sjá yfir ræðing þinn, er

þú átt að lesa í nótt, því að þú last allt rangt í fyrri nótt«. Hvenær skáktafl hafi fyrst borizt til Norðurlanda, er allsendis ókunnugt. En hitt er víst, að fyrir daga Snorra er það altítt og hann er sjálfur þeirrar skoðanar, að í Danmörk hafi það verið tíðkað meðal manna Knúts ríka á öndverðri 11. öld. Hvergi er bent til þess í norrænum ritum, sem sagt er fullum fetum í skáksögu-yfirliti ritsins »Í uppnámi«, að skáktafl hafi fluzt hingað til lands frá Englandi með íslenzkum námsmönnum. Það er að eins einn möguleglеiki meðal margra. — Kotru er getið á Sturlungaöldinni; eins og nafnið bendir til (kotra > kvotra > kvátra = fr. quatre) og öll orðtæki, er það tafl af frönskum uppruna. — Títt var það um töfl í fornöld, að þau urðu mönnum að misklíðarefni, svo sem sjá má af framantöldum dæmum. Í Sturl. er sagt um tvo menn, að þeir bitust um tafl og konur. Menn tefldu einatt um viðurlögur (þ. e. lögðu eitthvað við), og kvað svo ramt að því að það var bannað með lögum ásamt verplakasti (þ. e. teningskasti). Þó mun ósamlyndið sjaldnast hafa stafað af því, heldur miklu fremur af metnaði. Að vera góður taflmaður var talið vitsmunamerki og því sómi. Taflást fornmanna er og auðsæ af því, hversu skrautlega var frá þeim gripum gengið. Taflmennirnir voru einatt úr dýru efni og geymdir í pung (taflpungr) með gullhringum á dragböndunum. Í borðinu var hringur, t. d. úr silfri, svo að hægt var að hengja það á vegg.

Þá skemmtu menn sér einnig innan fjögra veggja við ýmsa leiki, er fólgnir voru í líkamshreyfingum.

Hnútukasts[1] er getið í gömlum sögnum við veizlur jötna og fornkonunga, enda mun sá ölsiður hafa

1) Sbr. kast (= lærhnúta) í vestfirsku alþýðumáli og orðtækið „að gefa (senda) e. m. hnútu“.

tíðkazt að eins á fornheiðnum tímum. Það var þá títt, er menn sátu að máltíð, að kasta beinunum í hrúgu á gólfið (sbr. beinasorp, Fas I 65). Lá þá nærri að mörgum kesknum karli yrði fyrir að senda einhverjum andbýlinga sinna hnútu og vita, hversu karlmannlega væri á móti tekið. Kom þá svo löngum, að hnútur flugu unnvörpum bekkja á milli; greip hver sem bezt hann kunni og sendi aptur af alefli. Og því eðlilegra var, að þetta yrði að alvanalegu veizlugamni, sem mikils var um vert fyrir bardagamenn, að kunna vel að grípa og hæfa. Saxo grammaticus getur þess í lýsingu sinni á brúðkaupi Agnars í höll Hrólfs kraka, »að kapparnir gjörðust kátir og höfðu það til gamans sér að kasta hnútum að þeim, er Hjalti hét«. Við risa brúðkaup í Bárðarsögu höfðu menn sér til skemmtunar hnútukast og glímur.

Orðtækið: »að eiga við ramman reip að draga« á ætt sína að rekja til þeirrar aflraunar, er nefndist reipdráttur. Menn toguðust á um reipi, tveir eða fleiri. Um Eirík eygóða Danakonung er það í frásögur fært, að hann sat í öndvegi og togaðist á við fjóra sterka menn hvorri hendi og gjörði annað tveggja, að rykkja af þeim reipunum eða draga þá til skiptis upp að knjám sér. Svipuð aflraun var að toga hönk; tveir menn tóku hring úr tág eða reipi, settust flötum beinum á gólfið, spyrntust í iljar og streittust við báðum höndum, unz annar missti eða hrökk upp. Opt notuðu menn belti, með því að þau voru tíðast við höndina, og nefndist þá aflraunin beltadráttur. Eða menn toguðust á um kefli í stað hrings, eins og enn tíðkast víða hér á landi. — Þá var og skinndráttur aflraun milli tveggja manna; tók hvor í sinn enda á húð eða skinni og sviptust á standandi. Beittu þeir ýmsum brögðum hvor um sig til þess að ná skinninu af keppinaut sínum

eða koma honum af fótunum. Var því um hvorttveggja að gjöra, afl og mjúkleika. Á þessari aflraun bygðist leikur sá, er kallaður var *hornaskinnleikur* eða *hráskinnsleikur*. Fimm menn tóku hráblautt skinn, hnoðuðu því saman og höfðu það fyrir leiksopp; fjórir skipuðust í horn og köstuðu skinninu milli sín, en hinn fimmti stóð á miðju gólfi; hann »var úti« og skyldi ná því. Hann hljóp nú til og reyndi að henda skinnið á lopti; en það var hægra ort en gjört, því að í mörg horn var að líta og hátt kastað. Vænlegast var honum að standa í miðju þar til er hann sá, hvert miðað var, taka þá snöggt viðbragð og ráða að þeim, er til var kastað, henda frá honum skinnið eða svipta því af honum ella, áður en hann fengi sent það öðrum. Komu honum þá ýms brögð í góðar þarfir, og voru þau einu nafni nefnd *skinnleiksbrögð*. Ýmist hratt hann keppinaut sínum til hliðar eða beygði sig snöggt niður, ef hinn sat, greip í fætur honum og dró hann fram á gólfið burt frá skinninu. Ýmist brá hann honum til glímu. Næðu báðir í bjórinn, sviptust þeir um hann sem áður er getið um skinndrátt. Það er auðsætt, að leikurinn var ærið umsvifamikill og þreytandi, enda *tóku* menn *hvíldir* af og til. Áhorfendurnir hörfuðu undan upp í bekkina. Og margur leikenda hlaut meiðsli af þessu gamni. Þannig er þess getið um Árna biskup Þorláksson, er hann var eitt sinn í æsku við skinnleika í Kirkjubæ, að hann datt á arinhellu og meiddi sig í kné.

---

Þótt framanskráð yfirlit sé stutt og ónákvæmt, vona eg eigi að síður að það nægi til að gefa í skyn, að íþróttaæfingar og skemmtanir fornmanna mega teljast meðal hinna frjóaugðari frækorna að þroska þeirra, andlegum

og líkamlegum. Íþróttirnar voru meginatriðið í uppeldinu, aðalbarnalærdómurinn, er sneið fullorðinsárunum stakk að mörgu leyti. Og samkvæmin, jafnt hinar alþýðlegu skemmtisamkomur sem veizluhöld í heimahúsum, hlutu að hafa víðtæka þýðingu fyrir viðgang þjóðlífsins. Þau greiddu mörgum menningarstraum rás, mann frá manni og byggð úr byggð. Þau vöktu marga öldu, er rauf lognið og bratt kyrstöðunni. Án þeirra, eins og þau voru vaxin, hefði fornöldin naumast orðið jafn atburðarík og bókmenntir hennar naumast jafn sögurikar, sem raun er á orðin. Þau voru eins konar arineldar, er dreifðu hita og fjöri út um æðar þjóðarinnar og studdu með öðrum orsökum að því, að gjöra hana tápmikla í anda og athöfnum.

---

# Heimskvörnin og hafsaugað í trú fornmanna.

Eftir

*Jón prófast Jónsson.*

---

Í ritgjörð minni: »Landaleitir fornmanna í Norðurhöfum« (Tím. Bmf. XXIII. 138—157. bls.) var nokkuð minst á »hafsaugað« og »kvörnina miklu« (misprentað á 145. bls. neðanmáls: »h v e r i n a miklu«) »út fyrir jarðar skauti«, og af því að hér er að ræða um markvert atriði í goðafræðinni, sem er hin elzta grein bókmenta vorra, en þetta atriði kemur þó ekki greinilega fram í Eddu, þá hefir mér þótt ástæða til að skýra í stuttu máli frá því, sem rannsóknir Viktors Rydbergs (»Undersökningar i germanisk Mythologi«) hafa leitt í ljós þessu viðvíkjandi, og eg veit eigi til að neinn hafi fært gild rök á móti, þótt þessu verki Rydbergs hafi annars verið fundið margt til foráttu.

Áður en bók Rydbergs kom út, hafði Benedikt Gröndal (í ritgerð sinni um hafið, Tím. Bmf., V. 109—110 bls.) minst á hugmynd fornmanna um »volduga hafskvörn, þar sem bárurnar brotna og deilast«, er Snæbjörn skáld hafi kveðið um »í einhverri hinni fegurstu sjómannavísu í fornöld«. Hann getur þar og um orðið »Malström« um svelg eða röst í hafi, og segir að það

feli í sér söguna um, að sjávarkvörnin m a l i, enda er Dynröst á Petlandsfirði sett í samband við auga Grotta, hinnar frægu kvarnar, er Fróði átti Danakonungur og lét þær Fenju og Menju mala gull á, unz þær mólu her að honum »og þá kom Mýsingur sækonungur og tók kvörnina (lét hana mala hvítasalt), og mól hún hann í sjó«. Svipaðar sagnir um kvörn í sjónum finnast víðsvegar um Norðurlönd og á ströndum Þýzkalands og Frakklands, og munu þær allar af sömu rótum runnar (sbr. Ísl. Þjóðs. Jóns Árnasonar II. 9—13: »Malaðu hvorki malt sé salt«).

Í Tím. Bmf. XIII. hefir B. Gr. farið lofsamlegum orðum um verk Rydbergs, og segir þar um þetta efni meðal annars (154. bls.): »Kvörnin Fróða, sem Fenja og Menja sneru og möluðu gull á, er endurminning um hina fornu heimskvörn«.

Nú vilja margir, þeir er fróðir teljast í meðferð og rannsókn alþýðusagna, eigi kannast við neina forna goðsögn um heimskvörn, heldur leitast þeir við að skýra upptök Grottasögunnar og áþekkra sagna um kvarnir í sjó á annan hátt, sundurliða þær á ýmsa vegu, og sneiða hjá öllu því, sem bendir á samband þeirra við goðatrúna, (sjá A. Olrik í Salmonsens Konv. Leks. VII. 1064—65). En vísa Snæbjarnar, sem áður var á minst:

»Hvatt kveða hræra Grotta<br>
hergrimmastan skerja<br>
út fyrir jarðar skauti<br>
Eylúðrs níu brúðir

þær er (lungs) fyrir löngu<br>
liðmeldr (skipa hliðar<br>
baugskerðir rístr barði<br>
ból) Amlóða mólu«

virðist ljóslega benda á aðra miklu stærri kvörn en þá, sem Fróði átti og sökk á Petlandsfirði, því að henni snúa að eins tvær tröllkonur (Fenja og Menja), en hinni miklu kvörn hafa lengi snúið »níu brúðir Eylúðrs út fyrir jarðar skauti« ɔ: á heimsenda. Mjöl hennar kallar skáldið »meldr Amlóða«, af því að sagan um Amlóða

lætur hann kalla sandinn á sjávarströndinni mjöl stormakvarnarinnar (»eadem — ɔ: farra — albicantibus maris procellis permolita esse respondit«, Sax. III. 141). Það hlýtur að vera átt við þessa kvörn í Vafþrúðnismálum 35. er., þar sem Vafþrúðnir segir svo um Bergelmi: «Þat ek fyrst of man | er sá hinn fróði jötunn | á var lúðr of lagiðr«, því að lúðr er kvarnarstokkur (og stundum kvörn í heild sinni), og getur í þessu sambandi varla þýtt annað, því að fjarstæða væri að ímynda sér, að Bergelmir jötunn hefði verið lagður á hljóðfæri (herlúður), enda finst lúðr alls ekki í þeirri merkingu í Eddukvæðunum. Guðbrand Vigfússon hefir grunað, að hér væri um týnda goðsögn að ræða (»some ancient lost myth« Dict. 399), og Fritzner hefir líka efast um (í orðabók sinni, útg. 1867, 418. bls.), að sá skilningur á þessum stað væri réttur, sem kemur fram í orðunum í Gylf. 7., »hann fór upp á lúðr sinn«, en orðum þessum hefir verið breytt í »hann fór á bát sinn« í fyrstu útgáfu Snorra-Eddu, og »lúðr« síðan skilið um bát, sem Bergelmi hafi bjargað sér á og konu sinni. Rydberg hefir sýnt, að það er fráleitur misskilningur, að laga svona sögu Bergelmis eftir sögu Nóa, og það er alt annað, að vera lagður á kvarnarstokk eða fara sjálfur upp á hann til að bjarga sér, eins og Snorri hefir líklega haldið að Bergelmir hafi gjört.[1]. Það liggur næst að halda, að Bergelmir hafi

1) Hér er annars ljóst dæmi upp á það, hvernig sumir þeir, sem fást nú við goðfræðisrannsóknir, hafa gengið fram hjá röksemdum Rydbergs og haldið fast við þær skýringar, sem ná eigi neinni átt, eða rangfært orð hans, til að geta hnjátað í hann, af því að þeir eru yfirleitt mótfallnir stefnu hans og rannsóknaraðferð. Það stendur enn í goðafræði Mogks (frá 1891), sem hlotið hefir mikið lof og þykir eiga það skilið (Tím. Bmf. XIV. 228.), að Bergelmir hafi bjargað sér á báti úr flóði því, er kom af blóði Ýmis „(Nur Bergelmir entkommt auf seinen Nachen„ Myth. 1113. bls.), og A. Olrik segir (Ark. f. nord. Fil. XV. 361.),

verið lagður á kvörnina til að malast, og þessi skilningur verður alveg eðlilegur, þegar þess er gætt, að »ór Ýmis holdi | var jörð um sköpuð« o. s. frv. (Vafþr. 21., Grm. 40—41), því að Ýmir eða Aurgelmir var faðir Þrúðgelmis og afi Bergelmis, og ræður að líkindum, að fornmenn hafi hugsað sér líkami allra þessara frumjötna sama efnis, og að hold þeirra allra gæti myndað mold og aur, sem settist á »salar steina«,, svo að »grund« mætti verða, »gróin grænum lauki«, er »sól skein á« þá (Vsp. 4.). Með því að Ýmir lifði við mjólk Auðhumlu (Gylf. 6), var það eðlilegt, að hold hans og niðja hans gæti myndað frjóa mold, og kemur það hér fram, að kýrin er í trú forfeðra vorra upphaf gróðrarlífs og dýralífs, eins og hún hefir verið í trú Forn-Persa og Forn-Inda. Nafnorðin m o l d og m ö l eru samstofna við sagnorðin m y l j a og m a l a, og hefir hin mikla kvörn í hafinu, sem malar grjótið og jarðveginn og myndar aurinn og gróðrarmoldina, að líkindum verið kölluð Græðir, sem síðan er orðið ókent heiti hafsins í heild sinni í skáldskap fornmanna. Það var að búast við, að hugmyndin um þessa miklu heimskvörn yrði óskýr og gleymdist að mestu í kristni, og leifar hennar rynni saman við söguna um kvörn Fróða, sem sjá má af formálanum við Grottasöng í Skáldskaparmálum og þjóðsögunni: »Malaðu hvorki malt né salt«.

En það er ekki að eins vísa Snæbjarnar og vísuorðið í Vafþr. 35, sem bendir á heimskvörnina fornu, heldur enn fremur það sem stendur í Lokasennu um Byggvi og Beylu, »þjónustumenn Freys«, sem hvergi eru

að Rydberg gjöri Amlóða að jötni eða goði, er ráði fyrir hafinu þótt það komi skýrt fram í bók Rydbergs (Germ. Myth. I. 428 sbr. 432), að mjöl heimskvarnarinnar sé kent við Amlóða, af því að hann kallaði ægissandinn mjöl, en ekki af því að hann malaði sjálfur, eða væri neitt við kvörnina riðinn.

nefnd annarsstaðar. Byggvir reiðist Loka, þegar hann talar illa til Freys, og segir:

(43)»Veiztu, ef ek öðli ættak
sem Ingunar-Freyr
ok svá sælligt setr
mergi smæra mölða ek
þá meinkráku
ok lemða alla í liðu.«

Þá svarar Loki:

(44)»Hvat er þat ið litla
er ek þat löggra sék
ok snapvíst snapir;
at eyrum Freys
munðu æ vera
ok und kvernum klaka«.

Þá segir Byggvir:

(45)Byggvir ek heiti
enn mik bráðan kveða
goð öll ok gumar:
því em ek hér hróðugr
at drekka Hropts megir
allir öl saman«.

Loki svarar honum aftur:

(46)»Þegi þú Byggvir!
þú kunnir aldregi
deila með mönnum mat;
ok þik í flets strá
finna né máttu
þá er vágu verar«.

Af þessum orðaskiftum er auðráðið, að Byggvir sýslar eitthvað um kvörn og starfar að mölun fyrir Frey, og þar sem Loki segir í brigslum sínum til Beylu (Lok. 56): »öll ertu, deigja, dritin!« þá bendir það líka til starfs hennar við kvörn og matseld, og ef hún kom nálægt kvörn þeirri, er mól mold og aur, mátti geta nærri, að hún bæri á sér merki þess. Byggvir talar um að mala Loka í smátt og merja hann sundur lið fyrir lið, og minnir það á orðið »liðmeldr« í vísu Snæbjarnar, sem beinast liggur við að skilja um lima-mjöl, ɔ: mjöl það, sem heimskvörnin malar úr limum frumjötnanna. Það var sjálfgefið, að kvörn þessi væri undir umsjón Freys, sem réð fyrir ávexti jarðar (Gylf. 24), og nafn Byggvis á bæði skylt við korntegundina bygg og sagnorðið byggja,

sem minnir á yrkingu jarðarinnar. Byggvir segist vera hróðugur af því; að synir Óðins drekki allir öl saman, því að ölið er gjört af ávexti jarðar (byggi). Loki brigslar Byggvi um það, að hann kunni ekki að deila mönnum mat, og fela þau brigsl það í sér, að Byggvir hafi slíkt starf á hendi. Gróðrarmoldin frá hinni miklu kvörn kemur mjög misjafnlega niður, og lönd manna eru ólík að frjósemd og gæðum; eru því brigsl Loka eigi ástæðulaus; en annars væri bágt að skilja merg málsins í samræðum þessum, ef störfum þeirra Byggvis og Beylu væri eigi svona háttað.

Enn er minst á heimskvörnina, sem »malar mold til matar,« í Sólarljóðum, sem kristinn höfundur hefir ort, og er þar sagt frá ferð látins manns um marga heima »uppi ok niðri« (52. er.). Segir svo meðal annars af ferðinni um »kvölheima«:

(57) »Vindr þagnaði
vötn stöðvaði
þá heyrða ek grimmligan gný:
sínum mönnum
svipvísar konur
mólu mold til matar«.

(58) »Dreyrga steina
þær hinar dökku konur
drógu daprliga
blóðug hjörtu
héngu þeim fyr brjósti utan
mædd með miklum trega«.

Hér virðist skáldið hafa sett kvörnina í undirheima, og getur það átt rót sína í heiðnum hugmyndum um Hvergelmi, sem Gylf. 57 gjörir að kvalastað[1], en Grímnismál (26) segja um: »þaðan eiga vötn öll vega« ɔ: vötn

1) Þetta hlýtur að vera misskilningur Snorra (sbr. Gylf. 16: „Enn svá margir ormar eru í Hvergelmi með Niðhögg, at engi tunga má telja“ og Gylf. 57. „Enn í Hvergelmi er verst. Þar kvelr Niðhöggr | nái framgengna“) og koma þar fram áhrif frá hugmyndum kristinna manna um helvíti. Rydberg (Germ. Myth. II. 20) og Mogk (Myth. 1112) láta Hvergelmi þýða ó l g u k e t i l, og bendir það á svelg eða hringiðu.

himins, jarðar og heimsins neðra (Grm. 27—28), því að ætla má, að fornmenn hafi hugsað sér kvarnaraugað yfir Hvergelmi, norður á heimsenda, og að sjávarvatnið streymdi ofan í það og upp úr því aftur, sbr. Ísl. Þjóðs. II. 518 (»Farðu norður og niður«), þar sem maður sá, er hélt að sig mundi reka út í hafsauga, komst loks til kvalastaðar fordæmdra. Í Sólarljóðum eru heiðnar konur látnar mala mold til matar hinum heiðnu mönnum sínum, og er þetta mikið kvalræði fyrir pær. Skáldið notar hér heiðnar hugmyndir og lagar þær eftir sínum hugsunarhætti. Í forneskju hefir það verið verk ambátta að snúa kvörn, og í Grottasöng eru það tröllkonurnar Fenja og Menja, sem neyddar eru til að snúa kvörn Fróða. Heimskvörninni miklu snúa »níu brúðir Eylúðrs[1] út fyrir jarðar skauti«, og eru þær að öllum líkindum hinar sömu og »níu jötna meyjar við jarðar þröm«, sem taldar eru mæður Heimdallar í Hyndl. 35. — Eftir Gylf. 27 segist Heimdallr sjálfur vera »níu mæðra mögr«, »níu systra sonr«, og má skýra þá goðsögn á þann hátt, að Heimdallr tákni eldinn helga, sem kviknar af snúningi heimskvarnarinnar, og er það líkt því sem fornindversk goðakvæði (Rigveda) segja frá uppruna eldguðsins Agni[2], sem samsvarar Heimdalli í flestum greinum (sjá Rydberg: Germ. Myth. I 440—47, II. 74—82, sbr. Tím. Bmf. XIII. 161).

Nú er þess enn fremur að gæta, að faðir goðmagna

1) Í Sn. E. II. 472, 556 er Eylúðr látið vera eitt af heitum Óðins, og er það seinni tíma tilbúningur, líkt og að telja Óðin föður Heimdallar (s. st.) eða afa Njarðar (Fas.[2] II. 10 „Hv. N. b.“ IV.), eða föður „Ingifreys“ (Fms. XI. 413).

2) Agni (sbr. lat. i g n i s) táknar þann eld, sem kviknar við núning og var haldinn heilagur; en til var líka vanheilagur og skaðvænn eldur, og slíkan eld táknar Loki, sem er aðal-andstæðingur Heimdallar í Ásatrúnni (sbr. ritgjörð mína: „Liserus = Lýsir = „Litir“ í Ark. f. nord. Fil. XV. 255—58).

þeirra, er stýra göngu sólar og tungls, er nefndur Mundilfæri, og getur þýðing þess heitis varla verið önnur en »sá, sem færir möndul«[1], en sá möndull, sem faðir Sólar færir, hlýtur að vera möndull heimskvarnarinnar, sem forfeður vorir hafa hugsað sér að kæmi á stað hinni reglubundnu hreyfingu hafsins og snúningi stjörnuhvolfsins. Kvörnin mun hafa verið eina gangvélin, sem germönsku þjóðirnar þektu um langan aldur, og var eigi mót von, þótt barnalegt ímyndunarafl þeirra léti hana endurspeglast í stærstu gangvélinni, sem þær höfðu grun um að til væri, enda hefir lík hugmynd vakað fyrir Forn-Indum, sem sjá má af Rigveda, þótt þar sé eigi getið um kvörn þá, sem höfð er til að m a l a k o r n[2], heldur annars konar kvörn (sbr. indversku söguna í Eimr. IX. 194—7). Kvæðin í Rigveda nefna þann, sem stýrir heimskvörninni og ræður hreyfingu stjörnuhvolfsins, Savitri, og er hann talinn faðir Sólar, eins og Mundilfæri, en jafnframt skapandi goðmagn, eins og Lóðurr í Völuspá (18), sem virðist vera einn af Burssonum (bróðir Óðins) og með því nafnið Lóðurr táknar að líkindum þann sem lætur blossa koma upp (sbr. þýzka sagnorðið l o d e r n) getur það vel verið eitt af heitum Mundilfæra, sem

1) „Mundill“ mun vera tilbreyting af „möndull“, en ekki þýða v e r n d, eins og Mogk hyggur (Myth. 1051). — Guðbr. Vigfússon setur (í orðabók sinni: Dict. 437) „mundill“ í samband við: „the veering round or the revolution of the heavens“. Í rússneskum þjóðkvæðum um Elías frá Murom („Ilja Moromets“, eftirmynd Þórs) virðist koma fram óljós endurminning nm möndul heimskvarnarinnar, þar sem sagt er, að Elíasi hafi fundist hann vera svo sterkur, að hann gæti hrist himininn, ef bjálki frá himnum væri festur við jörðina (sjá: For Ide og Virkelighed 1869: 345. bls.).

2) Orðin „korn“ og „kvern“ (hjá Gotum quairnus, hjá Litövum girnôs) virðast eiga kyn sitt að rekja til sama stofnorðs (á sanskrít „kûrnu“, Mommsen: Röm. Gesch. I. 16).

kveikir eld með núningi gangvélar sinnar, og má því teljast faðir Heimdallar. Rígsþula virðist telja Heimdal ættföður Danakonunga (Skjöldunga, sbr. G. Br. í N. Fél. XIII, 118—125 og Björn M. Ólsen í Tím. Bmf. XV. 70—71), en hjá Saxa (I. 23) er faðir Skjaldar kallaður »Lotherus«, sem getur varla verið annað en Lóðurr[1]. En hvað sem þessum samrætingum líður, þá eru full líkindi til, að fornmenn hafi kunnað fleira að segja frá Mundilfæra en það sem stendur í Gylf. 11[2], því að frá honum mun stafa »Myndill sækonungr« í Fas[2] II. 5. »Mundill gamli« í Háleygjatali og »Möndull dvergr« í

1) Saxi kallar afa Lóðurs og elzta frumföður Danakonunga H u m b l a (Humla, „Humblus"), og kemur þar fram sami nafnstofn og í „Auð h u m l a(-h u m b l a)", enda samsvarar Humbli eftir röðinni Bura (afa Óðins, Hænis og Lóðurs), sem kom upp úr steininum, er Auðhumla sleikti (Gylf. 6).

2) Rydberg hefir fært ýms rök að því, að Mundilfæri sé hinn eiginlegi Mánaguð, faðir Sunnu og Nönnu (sólardísar og mánadísar = „Sunna" og „Sinhtgunt" hjá Þjóðverjum), og hafi mörg heiti, enda er Nanna ýmist talin dóttir Gevars (hjá Saxa), eða Nökkva (í Hyndl.) eða Nefs („Neps" í Gylf. 51) = Hnefs, er Niflungar = Hniflungar (Hkv. Hb. I. 48) eru frá komnir, en hér skal eigi farið langt út í það mál, heldur að eins drepið á það, að þar sem Gylf. 11 segir, að Máni hafi tekið „tvö börn af jörðunni, er svá heita: Bil ok Hjúki, er þau gengu frá brunni þeim, er Byrgir heitir, ok báru á öxlum sér sá, er heitir Sægr, enn stöngin Simul", — þá hlýtur sú sögn að hafa verið fjölskrúðugri í heiðni, og má nærri geta, að einhver dýrmætur lögur hafi verið í sánum, er börnin báru, og brunnurinn Byrgir svipaður skáldalindum Forn-Grikkja: Aganippe og Hippokrene. Nú hefir Rydberg gjört það sennilegt, að fornmenn hafi hugsað sér skáldamjöðinn geymdan í tungli (sbr. goðadrykkinn Soma í trú Forn-Inda, sem geymist í tungli), og bregður sú skýring birtu yfir ýmsar óljósar kenningar og orðatiltæki í fornkvæðum („Nökkvers nökkvi" í Sonatorreki, „Hertýs víngnoð" Sn. E. I. 240, og „Sökkvabekkr" í Grm. 7. „er svalar unnir glymja yfir", sbr. s. af „M j a ð v e i g u Mánadóttur" í Þjóðsögunum).

Göngu-Hrólfssögu (sbr. »Máni karl« í Hróm. s. Greipssonar). Það er líkt og þegar Mardöll (Freyja) er orðin að »M æ r þ ö l l u« í Þjóðsögunum (II. 424), eða »B í l d r« er kominn í stað Baldrs í Hróm. s. Greipssonar.

Með þessu er fyrst og fremst fengin fullnægjandi skýring á vísuorðinu í Vafþr. 35. og orðaskiftum Loka við Byggvi og Beylu í Lokasennu. Eftir fornri trú er h e i m s k v ö r n i n langt norður í hafi, yfir nyrzta heimsbrunninum (Hvergelmi), þar sem vötnin eiga upptök sín, og malar »liðmeldr« (möl og mold), er dreifist um jörðina. Auga hennar er h a f s a u g a ð, sem enn er oft nefnt í daglegu tali. Þá er það og ljóst, að sagan um k v ö r n F r ó ð a, sem mól gull og frið og sælu, á eðlilegar rætur í hinni fornu trú á heimskvörnina, sem var í varðveizlu F r e y s, því Fróði á skylt við Frey, sem mörg merki má sjá til (sbr. Flateyjarbók I. 404, þar sem Ólafur Tryggvason er látinn segja: »Frey var kendr friðr sá enn mikli, er í Svíþjóð var um hans daga, en Danir kendu þann frið Fróða konungi, er réð fyrir Danmörku, ok kölluðu þeir þat Fróða frið«)[1]. Enn fremur er hér gjörð grein fyrir afstöðu og hlutverki Mundilfæra, og hinni furðulegu ættleiðslu Heimdallar frá níu mæðrum (meyjum, Gylf. 27), en engum föður í venjulegum skilningi, þótt næst liggi að telja Mundilfæra föður hans[2]. Annars er það sennilegt, að Heimdallr sé sama vera og Glenr (ɔ: hinn bjarti, ljómandi), maður Sólar (sjá Rydb.:

1) Steinarnir í kvörn Fróða hafa líklega átt að vera brot úr steinum heimskvarnarinnar (sbr. Grott. 11—12). B. Gr. (Tím. Bmf. V. 109) setur Grotta í samband við „fékvörn“ og kvarnir í fiska- (og hvala-)höfðum. Frá kvörn í hafi (svelg) mun það stafa, að kalla hyl í á „kvörn“.

2) Rigveda nefnir líka Savitri sem skapara eldguðsins Agni, sem talinn er sonur margra mæðra (Germ. Myth. II. 76, 80).

Germ. Myth. I. 126). Gísli Brynjólfsson hefir fyrir löngu (N. Fél. XIII. 78—79 nm.) haldið fram sambandi Heimdallar við dagsbrún og annað »fagurt skin á náttúrunni«, enda er hann kallaður Gullintanni, og hestur hans Gulltoppr, og höfðingjar þeir, sem honum standa næstir, eru kendir við gull (s. st. 144. bls.). Í Þrymskviðu (15) er hann talinn »hvítastr Ása« og Snorri segir (Gylf. 27) að hann sé »mikill ok heilagr«. Nafnið »Heimdallr« táknar þann, sem lýsir heiminum eða ljómar um heiminn (stofninn »dall« — á fornensku »deall« — merkir ljóma eða birtu, og kemur líka fram í Mar d ö l l og D e l l ingr), og bendir alt á það, að hann sé ljósgoð (Mogk: Myth. 1057), og það hefir Gísli Brynjólfsson fundið, er hann kemst svo að orði: »Engin forntrú heiðinna manna er fegurri né djúpsærri en norræn trú á Heimdalli og sögurnar um hann«.

Hér er heldur skamt farið út í samanburð á goðafræði vorri og goðafræði hinna arisku þjóða í Austurheimi (Forn-Inda og Forn-Persa), enda er mikill ágreiningur meðal fræðimanna um þau efni, þótt allir ætti að sjá, að beinna liggur við að líta í austurátt, til að komast að rótum norrænna goðasagna, heldur en að leita meginefnis þeirra hjá hinum kristnu Vestmönnum (Keltum). Það virðist liggja í augum uppi, að eins og málið hefir upphaflega verið hið sama hjá öllum ariskum (indgermönskum) þjóðum, eins muni þær og hafa haft eigi allfáar sameiginlegar goðsagna-hugmyndir (sbr. Mommsen: Röm. Gesch. I. 18), og þótt þær hafi nefnt sömu goðin ýmsum nöfnum (sbr. Gylf. 20), þá koma t. d. tvö fornindversk goðmögn: Vata og Parganya, einnig fram í Ásatrúnni með sömu nöfnum (Oðinn og F j ö r g y n n, hjá Litövum P e r k u n a s, hjá Austur-Slövum P e r u n). Hugmynd Norðurlandabúa um heimstré (»ask Yggdrasils«,

sem breiðir limar sínar um allan heim, en ræturnar ná til undirdjúpa)[1] virðist einnig eiga heima hjá frændþjóðunum í Austurheimi. Jötuninn Purusha hjá Indum samsvarar Ými hjá oss, og kýrin Auðhumla »frumkúnni« hjá Persum, en hvorugt þeirra finst í trú Forn-Grikkja, sem hafa þó svo margbreytt og fjölskrúðugt goðsagnakerfi, en það hefir orðið fyrir megnum áhrifum frá óskyldum eða mjög fjarskyldum nágrannaþjóðum: Semsniðjum (Semítum) og Egiptum.

1) Það mun vera sprottið af misskilingi, sem segir í Gylf. 15., að „Urðarbrunnr“ og þriðja rót asksins sé á himni, því að eðlilegast er að hugsa sér, að allar ræturnar og allir heimsbrunnarnir (Urðarbrunnr, Mímisbrunnr og Hvergelmir) sé neðan jarðar (sbr. Vsp. 2.: „mjötvið mæran) | fyr mold neðan“), enda er Urðr (á fornensku Vyrd, á fornþýzku Wurth) dauðagyðja, og mun eiga heima í undirheimum, sem heiðnir menn hafa sjálfsagt haft alt aðrar hugmyndir um en kristnir menn síðar („Urðarmáni“ boðar manndauða, samkvæmt Eyrb. 52. k.). Eins og kunnugt er, kölluðu forfeður vorir mannheiminn eða mannabygðina Miðgarð (sbr. Útgarðr um jötnabygðir og Ásgarðr um bústað goðanna), og finst það orð bæði í fornþýzku (Mittilgart, Mittingart, Middilgard) og fornensku (Middangeard), en Danir hafa líka kallað Miðgarð „Meðalheim“ („Mejlhjem“), og bendir þetta orð á hugmynd um heim milli „uppheims“ (Alv. 12. = himinsins) og „heimsins neðra“ (Fms. III. 176) ɔ: undirheima (bústaðar Heljar), þar sem „Niflheimr“ („Niflhel“) var nyrzt og neðst (sbr. Patala og Naraka hjá Indum). Meðalheimur heitir bær í Húnavatnssýslu, og þar um slóðir var á næstliðinni öld kveðin þessi vísa um mann, sem flæktur var við mörg og ill málaferli:

Ekki neðar en í Meðalheimi
lendir sál að lokunum,
er linnir mála-rokunum.

# Konunglegar embættaveitingar, nafnbætur og fl.

## á árunum 1800—1853, sem snerta Ísland eða Íslendinga.

---

### 1800.

26. febr. Cand. juris og stip. Arnamagn. *Theódóri Thorlacíusi* veitt Suður-Múlasýsla.

21. maí Sýslumanni í Skagafjarðarsýslu *Vigfúsi Scheving* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Cand. juris *Jónasi Scheving* veitt Skagafjarðarsýsla.

30. maí Cand. juris *Árni Sivertsen* skipaður undirkansellisti í hinu danska kansellíi.

18. júní Ritstofufulltrúi í rentukemmerinu, *Ludvig Erichsen*, assessor í landsyfirdóminum, *Stefán Stephensen*, undirkansellisti *Árni Sivertsen*, og exam. juris *Gunnlaugur Guðbrandsson Briem* skipaðir í nefnd til að meta allar jarðir á Íslandi (Lovs. for Isl. VI. 452).

S. d. Ritstofufulltrúa í kansellíi rentukammersins *Ludvig Erichsen* veitt kammerráðs nafnbót.

27. júní Jústitíaríusi í landsyfirdóminum *Magnúsi Stephensen* veitt jústizráðs nafnbót.

11. júlí[1] Lögmaður norðan og vestan *Magnús Stephensen* skipaður jústitíaríus í landsyfirdóminum.

S. d. Varalögmaður *Stefán Stephensen* skipaður 1. assessor í landsyfirdóminum (aukreitis).

S. d. Varalögmaður *Benedikt Jónsson Gröndahl*, og sýslumaður í Húnavatnssýslu, *Ísleifur Einarsson* skipaðir assessórar í landsyfirdóminum.

S. d. Varanótaríus *Björn Stephensen* skipaður dómsmálaritari við landsyfirdóminn.

18. júlí Undirkansellista *Arna Sivertsen* veitt kansellísekretera nafnbót.

3. septbr. Exam. juris *Wilhelm Frimann Krogh* veitt Húnavatnssýsla.

3. október Aðstoðarprestur pro loco í Soggendal *Gísli Jónsson* skipaður prestur að Rommedal í Aggerhús stipti.

## 1801.

30. janúar Lyfsala í Nesi við Seltjörn, *Magnúsi Ormssyni*, veitt lausn frá þeirri sýslun.

S. d. Cand. pharm. *Guðbrandi Vigfússyni* veitt leyfisbrjef að vera lyfsali í Nesi við Seltjörn.

22. júlí Sýslumanni í Vestur-Skaptafellssýslu *Lýð Guðmundssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Sýslumanni í Vestmannaeyjasýslu *Jóni Guðmundssyni* veitt Vestur-Skaptafellssýsla.

S. d. Stud. juris *Jóni Þorleifssyni* veitt Vestmannaeyjasýsla.

## 1802.

9. apríl Cand. chir. *Ari Arason* skipaður fjórðungslæknir í norðuramtinu.

1) Kgsúrskurðurinn er dagsettur 6. júní (Lovs. for Isl. VI 445).

21. apríl *Jóni Espólín*, sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu og *Jónasi Scheving*, sýslumanni í Skagafjarðarsýslu leyft að hafa sýsluskipti.

18. júní Prestur að Holme, Dr. philos. *Einar Guðmundsson* skipaður prestur að Sorum í Aggerhús stipti.

1. oktb. Fjórðungslækni í vesturamtinu *Hallgrími Jónssyni Bachmann* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Exam. chir. *Ólafur Brynjólfsson* skipaður fjórðungslæknir í vesturamtinu.

19. nóvbr. *Guðmundur Jónsson*, bóndi í Skildinganesi, sæmdur heiðurspening úr gulli »for ædel Daad« með leyfi til að bera hann á mannfundum.

29. desbr. Kammerráð *Ludvig Erichsen* skipaður amtmaður í vesturamtinu.

## 1803.

4. febr. Rektori við Frúarskóla í Kaupmannahöfn, jústizráði *Skúla Thorlacíusi* veitt lausn í náð frá embætti.

9. marz Sýslumanni í Kjósarsýslu og hjeraðsdómara í Gullbringusýslu *Sigurði Pjeturssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Kopíisti í rentukammerinu *Rasmus Frydensberg* skipaður sýslumaður í Kjósarsýslu og hjeraðsdómari í Gullbringusýslu.

15. apríl Sýslumaður í Kjósarsýslu og hjeraðsdómari í Gullbringusýslu *Rasmus Frydensberg*, jafnframt skipaður bæjarfógeti í Reykjavík (Lovs. for Isl. VI. 608).

10. júní Landfógeta *Paul Michael Finne* veitt lausn í náð frá embætti.

17. júní Prófessor og kennari í stærðfræði, uppdráttar-

list og lögfræði við »Bergseminariet« í Kóngsbergi, *Ólafur Ólafsson* jafnframt skipaður uppboðshaldari í lögsagnarumdæmi silfurnámunnar og í námubænum Kóngsbergi.

24. júní Landlækni *Jóni Sveinssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Landfysíkusi í Buskeruds amti í Noregi, Dr. med. *Jóni Gíslasyni* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1804.

18. apríl Exam. juris *Skúla Magnússyni* veitt Dalasýsla.

25. maí Cand. med. *Tómas Klog* skipaður landlæknir á Íslandi.

26. septbr. Kapteinn í landvarnarliðinu og varalandsdómari á Lálandi og Falstri Dr. juris *Friderich Christopher* greifi af *Trampe* skipaður amtmaður í vesturamtinu.

S. d. Jarðamatsnefndarmaður *Gunnlaugur Guðbrandsson Briem* sæmdur kammersekretera nafnbót.

24. okt. Sýslumaður í Húnavatnssýslu *Wilhelm Frimann Krogh* skipaður fógeti í Jaðars og Dala fógetadæmi í Stavangurs amti.

7. desbr. Ráðamaður og bæjarfógeti í Randers, Dr. juris *Snæbjörn Ásgeirsson Staðfeldt* skipaður borgmeistari í Randers.

## 1805.

17. apríl Sýslumanni í Eyjafjarðarsýslu, *Jóni Jakobssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Kammersekretera *Gunnlaugi Guðbrandssyni Briem* veitt Eyjafjarðarsýsla.

S. d. Exam. juris. *Sigurði Snorrasyni* veitt Húnavatnssýsla.

17. maí Cand. theol. *Steingrímur Jónsson* skipaður lector theologiæ og forstöðumaður latínuskólans á Bessastöðum (Lovs. for Isl. VI. 752).

## 1806.

25. apríl Sýslumanni í Mýra- og Hnappadalssýslu *Guðmundi Ketilssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

9. maí Sýslumanni í Kjósarsýslu, héraðsdómara í Gullbringusýslu og bæjarfógeta í Reykjavík *Rasmusi Frydensberg* veitt lausn í náð frá sýslumannsembættinu í Kjósarsýslu og hjeraðsdómaraembættinu í Gullbringusýslu, en honum aptur veitt landfógetaembættið ásamt bæjarfógetaembættinu í Reykjavík (Lovs. for. Isl. VII. 26).

S. d. Exam. juris *Hans Wölner Koefoed* settur sýslumaður í Kjósarsýslu og hjeraðsdómari í Gullbringusýslu og honum jafnframt falin sýslumannsstörfin í Gullbringusýslu.

6. júní Stiptamtmanni og amtmanni í suðuramtinu, *Ólafi Stefánssyni* veitt lausn í náð frá embætti (Lovs. for Isl. VII. 29).

S. d. Amtmaður í vesturamtinu *Friderich Christopher* greifi af *Trampe* skipaður stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu.

S. d. Assessor í landsyfirdóminum *Stefán Stephensen* skipaður amtmaður í vesturamtinu.

S. d. Settur kennari *Guttormur Pálsson* og settur kennari *Jón Johnsen* skipaðir fastir kennarar við latínuskólann.

S. d. Sjera *Hirti Jónssyni* veitt lausn sem settum kennara við latínuskólann.

| | |
|---|---|
| 19. sept. | Aðjunkt *Páll Arnason* skipaður yfirkennari við Christianíu kathedralskóla. |

## 1807.

| | |
|---|---|
| 3. apríl | Fjórðungslækni í Austfirðingafjórðungi *Brynjólfi Pjeturssyni* veitt lausn í náð frá embætti. |
| S. d. | Fjórðungslæknir í vesturamtinu *Ólafur Brynjólfsson* skipaður fjórðungslæknir í Austfirðingafjórðungi. |
| 24. júlí | Sýslumanni í Norður-Múlasýslu *Guðmundi Pjeturssyni* veitt lausn í náð frá embætti. |
| S. d. | Exam. juris *Páli Guðmundssyni* veitt Norður-Múlasýsla. |
| 4. desbr. | Stud. chir. *Oddur Jónsson Hjaltalín* skipaður fjórðungslæknir í vesturamtinu. |
| 18. desbr. | Kansellísekreteri *Arni Sívertsen* skipaður ritstofufulltrúi í rentukammerinu. |

## 1808.

| | |
|---|---|
| 8. apríl | Prestur að Rommedal *Gísli Jónsson* skipaður prestur að Tromöe og Öster Moeland í Aggerhússtipti. |
| 2. júlí | Cand. juris *Bjarni Thorsteinson* skipaður kopíisti í rentukammerinu. |
| 17. ágúst | Jústítíaríus í landsyfirdóminum *Magnús Stephensen* sæmdur etazráðs nafnbót |
| 21. ágúst | Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu *Friderich Christopher* greifi af *Trampe* sæmdur kammerherra nafnbót. |
| 25. ágúst | Exam. juris *Pjetri Ottesen* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla. |
| 21. oktbr. | *H. G. Sveistrup* löggiltur sem túlkur í íslenzku. |

## 1809.

25. júlí Borgmeistari í Randers, Dr. juris *Snæbjörn Ásgeirsson Staðfeldt* sæmdur jústizráðs nafnbót.

25. ágúst Cand. juris *Bjarni Thórarensen* skipaður undirkansellisti í hinu danska kansellíi.

## 1810.

7. jan. Lector theol. *Steingrími Jónssyni* veittur Oddi á Rangárvöllum.

23. júlí Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu *Friderich Christopher* greifi af *Trampe* skipaður stiptamtmaður í Þrándheimsstipti og amtmaður í syðra Þrándheimsamti (Lovs. for Isl. VII. 374).

S. d. Auskultant í rentukammerinu, kammerjunker *Johan Carl Thuerecht Castenskjold* skipaður amtmaður í suðuramtinu.

S. d. Staðfest umboðsskrá stiptamtmanns Trampes, dagsett í London 29. marz 1810, er skipar *Stefán Þórarinsson*, amtmann í norður- og austuramtinu, *Ísleif Einarsson* assessor í landsyfirdóminum og *Rasmus Frydensberg*, land- og bæjarfógeta í nefnd til að þjóna stiptamtmannsembættinu, og amtmanni í suðuramtinu, *Johan Carl Thuerecht Castenskjold* bætt við í nefndina.

31. júlí *Ísleifur Einarsson*, assessor í landsyfirdóminum og *Rasmus Frydensberg*, land- og bæjarfógeti sæmdir jústizráðs nafnbót.

8. ágúst *Steindór Finnsson*, sýslumaður í Árnessýslu, *Vigfús Þórarinsson*, sýslumaður í Rangárvallasýslu og *Þórður Björnsson*, sýslumaður í Þingeyjarsýslu sæmdir kansellíráðs nafnbót.

21. ágúst Geheime—Arkivarius, jústizráð Dr. juris *Grímur Jónsson Thorkelín* sæmdur etazráðs nafnbót.

## 1811.

28. jan. Geheimearkivarius, etazráð *Grímur Jónsson Thorkelín* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

22. febr. Undirkansellisti *Bjarni Thórarensen* sæmdur kansellísekretera nafnbót.

19. marz Kansellísekreteri *Bjarni Thórarensen* skipaður auka-assessor í landsyfirdóminum á Íslandi.

30. apríl Jústizráði *Rasmusi Frydensberg* veitt lausn í náð frá land- og bæjarfógetaembættinu frá júlímánaðar lokum 1813.[1]

10. júní Kopíisti í rentukammerinu *Bjarni Thorsteinson* skipaður skrifstofufulltrúi í rentukammerinu.

S. d. *Sigurður Thorgrímsen* skipaður kopíisti í rentukammerinu.

31. ágúst Cand. juris Lieutenant *Grímur Johnsson* skipaður auditör í landhernum.

## 1812.

11. jan. Yfirkennara við kathedralskólann í Christianíu, *Páli Árnasyni* veitt lausn í náð frá embætti.

21. febr. Sjera *Hannesi Scheving* í Laufási, prófasti í Þingeyjar-prófastsdæmi, veittur Grenjaðarstaður.

22. marz Cand. chir. *Eyjólfur Guðmundsson* skipaður Underchirurg ved Haandværksstokken.

11. apríl *Bjarni Sivertsen*, kaupmaður, sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

18. maí Kopíisti í rentukammerinu, *Sigurður Thor-*

1) 15. júlí 1815 varð hann Amtsforvalter for Kallundborg Amtstue.

*grímsen* skipaður landfógeti á Íslandi frá 1. ágúst 1813.

20. júní Sýslumanni í Vestmannaeyjasýslu, *Jóni Þorleifssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

15. júlí Landfógeti *Sigurður Thorgrímsen* jafnframt skipaður bæjarfógeti í Reykjavík frá 1. ágúst 1813.

18. júlí Sýslumanni í Ísafjarðarsýslu, *Jóni Johnsoníusi* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1813.

14. jan. Fyrrum yfirkennari *Páll Arnason* skipaður yfirkennari við Slagelse skóla.

20. marz Stjórnarnefnd stiptamtmannsembættisins afnumin og amtmaður í suðuramtinu *Johan Carl Thuereeht Castenskjold* skipaður jafnframt stiptamtmaður yfir Íslandi (Lovs. for Isl. VII. 461).

31. marz Amtmaður í norður- og austuramtinu *Stefán Þórarinsson* sæmdur konferenzráðs nafnbót.

S. d. Sýslumanni í Árnessýslu, kansellíráði *Steindóri Finnssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Sýslumanni í Suður-Múlasýslu *Theódóri Thorlacíusi* veitt Árnessýsla.

20. apríl Cand. juris *Vigfús Thórarensen* skipaður undirkansellisti í hinu danska kansellíi.

13. maí Stiptamtmaður *J. C. Th. Castenskjold,* jústizráð og yfirdómari *Isleifur Einarsson*, auka-yfirdómari *Bjarni Thórarensen,* ritstofufulltrúi *Arni Sívertsen,* og kaupmaður *Bjarni Sívertsen,* skipaðir í nefnd til að gjöra uppástungur um, með hverjum breytingum tilsk. 5. janúar 1813 verði lögleidd á Íslandi (Lovs. for Isl. VII. 468).

11. júní Sjera *Einar Guðmundsson*, Dr. philos., skipaður sóknarprestur í Nakskov.

17. júní Sýslumaður í Árnessýslu *Theódór Thorlacius* sæmdur kammerassessors nafnbót.

19. júlí Settur sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu *Hans Wölner Koefoed* skipaður Overbergamtsskriver við Overbergamtet í Kóngsbergi.

## 1814.

15. apríl Exam. juris *Halldór Thorgrímsen* settur sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu.

27. maí Sjera *Árna Helgasyni* á Reynivöllum veitt Reykjavíkur dómkirkjubrauð.

23. júlí Sýslumanni í Strandasýslu *Jóni Jónssyni* veitt Húnavatnssýsla.

## 1815.

23. júní Landlækni *Tómasi Klog* veitt lausn í náð frá embætti.

31. júlí Amtmaður, konferenzráð *Stefán Þórarinsson* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. *Bergur Benediktsson* í Árnanesi, *Björn Jónsson*, umboðsmaður, í Lundi, *Einar Jónsson*, hreppstjóri, á Kollafjarðarnesi, *Kristján Jónsson*, umboðsmaður, á Illugastöðum, *Þorlákur Hallgrímsson* á Skriðu sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

29. ágúst Yfirkennari við Slagelse skóla *Páll Árnason* skipaður rektor við Fredericia skóla.

13. septbr. Undirkúrírg *Eyjólfur Guðmundsson* skipaður varakírurg við Divisionerne í Admiralitetet.

19. septbr. Exam. juris *Páli Melsteð* veitt Suður-Múlasýsla.

28. septbr. Literatus *Finnur Magnússon* sæmdur prófessors nafnbót.
5. oktbr. Settur lector *Jón Johnsen* skipaður lector theol. og forstöðumaður Bessastaðaskóla.
S. d. Studiosus *Jón Jónsson* og studiosus *Hallgrímur Hannesson Scheving* skipaðir aðjunktar við Bessastaðaskóla.

## 1816.

19. apríl Jústitíaríus, etazráð *Magnús Stephensen* sæmdur konferenzráðs nafnbót.
26. apríl Sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu, *Jónas Scheving* sæmdur kansellíráðs nafnbót.
30. apríl Auditör *Grímur Johnsson* sæmdur Overkrigskommissærs nafnbót.
2. maí Sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, kammersekreteri *Gunnlaugur Guðbrandsson Briem* sæmdur kammerráðs nafnbót.
28. júní Sjera *Jóni Jónssyni* að Möðruvallaklaustri veitt lækningaleyfi í Eyjafjarðar- og Þingeyjarsýslu.
28. septbr. Ritstofufulltrúi í rentukammerinu *Bjarni Thorsteinson* sæmdur sekretera nafnbót.
13. desbr. Fyrrum landlæknir *Tómas Klog* skipaður stiptsfysíkus fyrir Láland og Falstur.

## 1817.

28. janúar Yfirdómari, jústizráð *Isleifur Einarsson* sæmdur etazráðs nafnbót.
17. maí Sýslumanni í Suður-Múlasýslu *Páli Melsteð* veitt Norður-Múlasýsla.
S. d. Kopíista í rentukammerinu *Morten Hansen Tvede* veitt Suður-Múlasýsla.
S. d. Exam. juris *Isaak Jacobi Bonnesen* veitt Strandasýsla.

S. d. Exam. juris *Otta Guðmundssyni Effersö* veitt Snæfellsnessýsla.

18. júní *Benedikt Jónssyni Gröndahl*, 1. assessor í landsyfirdóminum veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Etazráð og 2. assessor í landsyfirdóminum *Ísleifur Einarsson* skipaður 1. assessor.

S. d. Auka-assessor *Bjarni Thórarensen* skipaður 2. assessor í landsyfirdóminum.

1. júlí Sýslumaður í Suður-Múlasýslu, *Morten Hansen Tvede* sæmdur kammerassessors nafnbót.

S. d. Sýslumaður í Strandasýslu, *Isaak Jacobi Bonnesen* sæmdur stríðskansellísekretera nafnbót.

28. oktbr. *Geir Jónsson Vídalín*, biskup á Íslandi, sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

1. nóvbr. Adjunkt *Hallgrímur Hannesson Scheving* kjörinn Dr. philos. af Kaupmannahafnar háskóla.

## 1818.

10. janúar Prófessor *Finni Magnússyni* veitt lögtign sem prófessor extraordinarius.

4. marz Sjera *Torfa Jónssyni*, prófasti og presti í Hruna, veittur Breiðabólstaður í Fljótshlíð.

6. júní Sýslumanni í Strandasýslu *Isaak Jacobi Bonnesen* veitt Snæfellsnessýsla.

11. desbr. Sýslumaður í Árnessýslu, kammerassessor *Theodor Thorlacius* skipaður hjeraðsritari í Ulfborg og Hind hjeruðum í Ringkjöbing amti.

## 1819.

26. janúar Stiptamtmanni og amtmanni í suðuramtinu *Johan Carl Thuerecht Castenskjold* veitt lausn í náð frá þeim embættum[1].

1) **16. nóvember 1822 var hann skipaður stiptamtmaður í Rípum.**

S. d. Legationssekreteri í Berlín, kammerjunker *Ehrenreich Christopher Ludvig Moltke* skipaður amtmaður í suðuramtinu og settur stiptamtmaður.

10. febr. Undirkansellisti *Vigfús Thórarensen* skipaður kansellisti í hinu danska kansellíi og sæmdur kansellísekretera nafnbót.

27. marz Cand. theol. *Sveinbjörn Egilsson* skipaður aðjunkt við Bessastaðaskóla.

6. apríl Jústitiaríus og konferenzráð *Magnús Stephensen* kjörinn Dr. juris af Kaupmannahafnar háskóla.

11. maí Sýslumanni í Þingeyjarsýslu, kansellíráði *Þórði Björnssyni* veitt Árnessýsla.

12. maí Yfirauditör *Grímur Johnsson* skipaður bæjarfógeti í Skjelskör og hjeraðsfógeti í Vesterflakkebjerg hjeraði.

14. maí Cand. chir. *Jörgen Kjerulf* skipaður fjórðungslæknir í Austfirðingafjórðungi.

6. oktbr. Ritstofufulltrúi í rentukammerinu *Bjarni Thorsteinson* jafnframt skipaður auditör og kennari við sjókadettaskólann.

9. oktbr. Settur stiptamtmaður *Ehrenreich Christopher Ludvig Moltke* skipaður stiptamtmaður.

13. oktbr. Borgmeistara í Randers, jústizráði *Snæbirni Ásgeirssyni Staðfeldt* veitt lausn í náð frá því embætti en skipaður birkidómari í Estrup birki.

17. desbr. Cand. med. *Jón Thorstensen* skipaður landlæknir á Íslandi.

S. d. Cand. pharm. *Oddi Thórarensen* veitt leyfisbrjef til að stofna lyfsölubúð á Akureyri.

## 1820.

1. marz Cand. juris *Jón Finsen* skipaður undirkansellisti í hinu danska kansellíi.

22. júní Kansellíráði *Þórði Björnssyni* leyft að vera kyrr sem sýslumaður í Þingeyjarsýslu.

S. d. Sýslumanni í Húnavatnssýslu *Jóni Jónssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Assessori í landsyfirdóminum *Bjarna Thórarensen* veitt Árnessýsla.

S. d. Sýslumanni í Skaptafellssýslu *Jóni Guðmundssyni* veitt Rangárvallasýsla (÷ 27. marz s. á.).

S. d. Exam. juris *Birni Auðunarsyni Blöndahl* veitt Húnavatnssýsla.

S. d. Settum sýslumanni og stúdent *Jóni Jónssyni* veitt Strandasýsla.

S. d. Exam. juris *Johan Nicolai Abel* skipaður sýslumaður í Vestur-Skaptafellssýslu og settur fyrst um sinn í Austur-Skaptafellssýslu.

9. ágúst Cand. chir. *Jörgen Wichman Hoffmann* skipaður fjórðungslæknir í Norðlendingafjórðungi.

29. septbr. Ritstofufulltrúi í rentukammerinu, sekreteri *Bjarni Thorsteinson* skipaður 2. assessor í landsyfirdóminum.

## 1821.

5. maí Assessor í landsyfirdóminum *Bjarni Thorsteinson* skipaður amtmaður í vesturamtinu.

S. d. Sýslumanni í Skaptafellssýslu *Jóhanni Nícolai Abel* veitt Vestmannaeyjasýsla (sbr. Lovs. for Isl. IX. 381).

S. d. Cand. juris *Ólafi Finsen* veitt Gullbringu- og Kjósarsýsla.

S. d. Stríðsassessor *Regner Christopher Ulstrup* veitt Vestur-Skaptafellssýsla og settur fyrst um sinn í Austur-Skaptafellssýslu.

22. ágúst Cand. theol. *Páll Pjetursson* skipaður aðstoðarprestur að Faxö á Sjálandi.

28. desbr. Undirkanselllisti *Jón Finsen* sæmdur kansellísekretera nafnbót.

## 1822.

12. febr. Cand. juris *Ólafur Stefánsson Stephensen* skipaður auditör í landhernum.

1. maí Sýslumaður í Árnessýslu, *Bjarni Thórarensen* skipaður 2. assessor í landsyfirdóminum.

14. maí Studiosus *Björn Gunnlaugsson* skipaður aðjunkt við Bessastaðaskóla.

16. maí Sýslumanni í Snæfellsnessýslu, sekretera *Isaak Jakobi Bonnesen* veitt Rangárvallasýsla.

S. d. Cand. juris *Þórði Sveinbjörnssyni* veitt Árnessýsla.

7. ágúst Sjera *Páll Pjetursson* skipaður kapellan pro loco í Nykjöbing á Falstri.

## 1823.

7. jan. Kansellista og kansellísekretera *Vigfúsi Thórarensen* veitt lausn í náð frá embætti.

13. maí Exam. juris *Eiríki Sverrissyni* veitt Snæfellsnessýsla.

30. maí Lyfsala *Oddi Thórarensen* veitt leyfisbrjef að vera lyfsali í Nesi við Seltjörn.

7. júní Sjera *Gísli Brynjólfsson* á Hólmum kjörinn Dr. philos. af Kaupmannahafnar háskóla.

9. sept. Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu *Ehrenreich Christopher Ludvig Moltke* skipaður amtmaður yfir Prestö amti.

24. sept. Prófessor *Finnur Magnússon* skipaður aðstoðarmaður við Geheime- Archivet.

30. sept. Amtmaður *Bjarni Thorsteinson* settur stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu.

## 1824.

2. marz Auskultant í rentukammerinu, kammerjunker *Peter Fjeldsted Hoppe* skipaður amtmaður í suðuramtinu og settur stiptamtmaður.

S. d. Bæjarfógeti, yfirauditör *Grímur Johnsson* skipaður amtmaður í norður- og austuramtinu (Lovs. for Isl. VIII. 528).

5. maí Kansellísekreteri *Jón Finsen* skipaður hjeraðsfógeti í Andst, Slangs, Jerslev og Brusk hjeruðum í Veile amti.

12. maí Prófastur og prestur í Odda, *Steingrímur Jónsson* skipaður biskup yfir Íslandi.

27. maí Sýslumanni í Skaptafellssýslu, stríðsassessor *Regner Christopher Ulstrup* veitt lausn í náð frá því embætti.

29. sept. Sjera *Páll Pjetursson* í Nykjöbing skipaður prestur að Deiberg og Hamming.

## 1825.

14. jan. Cand. theol. *Gunnlaugur Oddsson*, kennari við sjókadettaskólann, sæmdur konsistoríalassessors nafnbót.

30. apríl *Jón Þorvaldsson*, hreppstjóri í Deildartungu í Reykholtsdal sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

4. maí Sjera *Helga Guðmundssyni Thordersen* í Saurbæ veittur Oddi á Rangárvöllum.

10. maí Cand. juris *Magnúsi Stephensen* veitt Austur- og Vestur-Skaptafellssýsla (Lovs. for. Isl. VIII. 646).

20. sept. Sýslumanni í Skagafjarðarsýslu *Jóni Espólín* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1826.

5. apríl Cand. juris *Ólafur Magnússon Stephensen* skipaður varadómsmálaritari við yfirdóminn.

25. apríl Settur stiptamtmaður yfir Íslandi *Peter Fjeldsted Hoppe* skipaður stiptamtmaðnr.

13. maí Cand. juris *Lárusi Thórarensen* veitt Skagafjarðarsýsla (Lovs. for Isl. IX, 83).

31. maí Konsistoríalassessori *Gunnlaugi Oddssyni* veitt Reykjavíkur dómkirkjubrauð.

6. oktbr. Cand. theol. *Jóhann Gunnlaugur Briem* skipaður aðstoðarprestur að Bjerregrav, Aulum og Taunum í Vebjarga stipti.

13. des. Sjera *Jóni Jónssyni* í Stærra-Árskógi veittur Grenjaðarstaður

## 1827.

19. maí Sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu, kansellíráði *Jónasi Scheving* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Sýslumanni í Snæfellsnessýslu *Eiríki Sverrissyni* veitt Borgarfjarðarsýsla.

## 1828.

23. jan. Stríðsráð *Carl Ferdinand Lund* skipaður læknir á Vestmannaeyjum (Lovs. for. Ísl. IX. 193).

30. apríl Sjera *Árna Helgasyni* í Görðum á Álptanesi veitt stiptsprófasts nafnbót.

24. maí Sýslumanni í Mýra- og Hnappadalssýslu *Pjetri Ottesen* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu *Eiríki Sverrissyni* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla.

S. d. Exam. juris *Stefáni Gunlögsen* veitt Borgarfjarðarsýsla.

S. d. Exam. juris *Kristjáni Magnúsen* veitt Snæfellsnessýsla.

S. d. Landfógeta og bæjarfógeta í Reykjavík *Sigurði Thorgrímsen* veitt lausn í náð frá landfógetaembættinu.

2. júlí Land- og bæjarfógeta *Sigurði Thorgrímsen* veitt lausn í náð frá bæjarfógetaembættinu.

1. nóv. *Peter Fjeldsted Hoppe*, stiptamtmaður á Íslandi, *Steingrímur Jónsson*, biskup yfir Íslandi, *Árni Helgason*, stiptsprófastur, í Görðum, og *Finnur Magnússon*, prófessor, sæmdir riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Geheime-Arkivarius, etazráð *Grímur Jónsson Thorkelín* sæmdur konferenzráðs nafnbót.

8. nóv. Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu *Peter Fjeldsted Hoppe* skipaður amtmaður í Veile amti.

## 1829.

17. jan. Yfirauditör, kammerjunker *Lorenz Angel Krieger* skipaður amtmaður í suðuramtinu og settur fyrst um sinn stiptamtmaður.

10. apríl Prófessor *Finnur Magnússon* skipaður Geheimearkivarius.

14. apríl Auditör *Ólafur Stephensen* sæmdur yfirauditörs nafnbót.

6. júní Sjera *Þorsteini Erlendssyni Hjálmarsen* á Helgastöðum veittur Hítardalur.

17. júlí Sjera *Páll Pjetursson* að Deiberg og Hamming skipaður sóknarprestur á Romey.

1. ágúst Amtmaður *Bjarni Thorsteinson* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Assessor í landsyfirdóminum, *Bjarni Thórarensen* sæmdur justizráðs nafnbót.

S. d. *Björn Gottskálksson* í Hrappsey, *Einar Ólafsson* í Rauðseyjum, *Eiríkur Vigfússon* á Reykjum á

Skeiðum, *Sigfús Jónsson* á Laugalandi, og *Þórður Jónsson* á Bakka á Seltjarnarnesi, sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

## 1830.

11. maí *Sveinn Jónsson* á Ytra-Skála undir Eyjafjöllum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

21. júlí Cand. chir. *Páll Þorbergsson* skipaður fjórðungslæknir á Vestfjörðum.

27. oktbr. Cand. juris *Halldór Einarsson* skipaður kopíisti í Geheime-Arkivinu.

29. desbr. Cand. theol. *Þorgeir Guðmundsson* skipaður 3. kateket við Brimarhólms söfnuð.

31. desbr. Hjeraðsfógeti, kansellísekreteri *Jón Finsen* skipaður bæjarfógeti í Ringkjöbing og hjeraðsfógeti í Ulfborg og Hind hjeruðum.

## 1831.

2. apríl Settur stiptamtmaður yfir Íslandi *Lorenz Angel Krieger* skipaður stiptamtmaður.

21. maí Sýslumaður í Dalasýslu *Skúli Magnússon* sæmdur kammerráðs nafnbót.

1. júní Júztizráði, Dr. juris *Snæbirni Ásgeirssyni Stadfeldt* veitt lausn í náð frá embætti.

1. oktbr. *Jón Sigurðsson* á Böggvesstöðum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

5. oktbr. Fjórðungslækni í Norðlendingafjórðungi *Jörgen Wichman Hoffmann* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1832.

4. febr. Settur landfógeti, stríðsassessor *Regner Christopher Ulstrup* skipaður landfógeti (Lovs. for Isl. IX. 425. 703).

23. marz Geheime-Arkivarius *Finnur Magnússon* skipaður í nefnd um standaþing í Danmörku.

28. marz Landfógeti, stríðsassessor *Regner Christopher Ulstrup* jafnframt skipaður bæjarfógeti í Reykjavík.

30. marz Yfirauditör *Olafur Stephensen* skipaður bæjarfógeti í Ebeltoft og hjeraðsfógeti í Suður og Mols hjeruðum í Randers amti.

8. maí Sýslumaður í Norður-Múlasýslu, *Páll Melsteð,* sýslumaður í Suður-Múlasýslu, kammerassessor *Morten Hansen Tvede,* og sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu *Ólafur Finsen* sæmdir kammerráðs nafnbót.

11. maí Cand. chir. *Jón Sigurður Guðmundsson. Ögmundsen* skipaður fjórðungslæknir á Vestfjörðum.

S. d. Cand. chir. *Eggert Jónsson* skipaður fjórðungslæknir í Norðlendingafjórðungi.

17. maí Land- og bæjarfógeti, stríðsassessor *Regner Christopher Ulstrup* sæmdur kansellíráðs nafnbót.

17, ágúst Cand. chir. *Hans Peter Johan Beldring* skipaður fjórðungslæknir í Austfirðingafjórðungi.

7. nóvbr. Dómsmálaritari við landsyfirdóminn, *Björn Stephensen* sæmdur kansellíráðs nafnbót.

7. desbr. Bataillónskirurg *Carl Hans Ulrik Bolbroe* skipaður læknir á Vestmannaeyjum.

## 1833.

27. apríl *Jón Daníelsson* í Vogum, *Ólafur Pjetursson* á Kalastöðum og *Jón Sighvatsson* í Njarðvík sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

S. d. *Kristján Guðmundsson* í Vigur, *Jón Halldórsson* á Sellátrum, *Sveinn Þorsteinsson* á Yxnakeldu, *Þorsteinn Þorsteinsson* á Ketilsstöðum í Mýr-

dal, og *Sæmundur Ögmundsson* á Eyvindarholti sæmdir heiðurspeningnum »ærulaun iðju' og hygginda«.

1. maí *Friðrik Svendsen*, kaupmaður á Önundarfirði og *Guðmundur Scheving*, kaupmaður í Flatey sæmdir agents nafnbót.

22. maí Amtmaður í norður- og austuramtinu *Grímur Johnsson* skipaður bæjarfógeti í Middelfart og hjeraðsdómari í Vends hjeraði.

10. ágúst Assessor í landsyfirdóminum, jústizráð *Bjarni Thórarensen* skipaður amtmaður í norður- og austuramtinu.

25. ágúst Varakírurg í sjóliðinu *Eyjólfi Guðmundssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

28. ágúst Bæjarfógeti í Middelfart *Grímur Johnsson* sæmdur etazráðs nafnbót.

20. nóvbr. Fjórðungslækni í Suðuramtinu *Sveini Pálssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1834.

18. apríl Assessor í landsyfirdóminum, etazráð *Isleifur Einarsson* skipaður jústitiaríus í landsyfirdóminum (Lovs. for Isl X. 477).

S. d. Sýslumaður í Árnessýslu *Þórður Sveinbjörnsson* skipaður 1. assessor í landsyfirdóminum.

S. d. Sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu *Olafur Finsen* skipaður 2. assessor í landsyfirdóminum.

3. maí Amtmaður, kammerherra *Hans Schack* greifi *Knuth*. stiptamtmaður *Lorenz Angel Krieger*, konferenzráð, Dr. juris *Andreas Sandöe Örsted*, etazráð *Jens Olaus Hansen*, etazráð, grossjeri *Lauritz Nicolai Hvidt*, amtmaður *Bjarni Thorsteinson*, og auskultant, kammerjunker *Thorkel*

*Abraham Hoppe* skipaðir í nefnd til að stinga upp á breytingum á hinum íslenzku verzlunarlögum[1] (Lovs. for Isl. X. 487).

6. maí Umboðsmanni Arnarstapa umboðs, exam. juris *Árna Thorsteinsen* veitt Ísafjarðarsýsla.

4. júní Cand. theol. *Tómasi Sæmundssyni* veittur Breiðabólstaður í Fljótshlíð.

S. d. Cand. chir. *Skúli Thórarensen* skipaður hjeraðslæknir í eystra læknisumdæmi suðuramtsins.

19. septbr. Stiptamtmaður *Lorenz Angel Krieger*, Geheime-Arkivarius *Finnur Magnússon*, og amtmaður á Færeyjum *Frederik Ferdinand Tillisch* skipaðir af konungi þingmenn á standaþingunum fyrir Ísland og Færeyjar.

15. nóvbr. Sýslumanni í Ísafjarðarsýslu *Árna Thorsteinsen* veitt lausn í náð frá því embætti.

## 1835.

17. jan. *Eyjólfur Einarsson* í Svefneyjum, *Guðmundur Jónsson* í Bræðratungu, og *Helgi Helgason* í Vogi sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

30. jan. Fjórðungslækni á Vestfjörðum, *Jóni Sigurði Ögmundsen* veitt lausn í náð frá embætti.

18. febr. Aðstoðarpresti *Jóhanni Gunnlaugi Briem* veitt Kousted og Raasted prestakall í Árósa stipti.

24. febr. Sýslumanni í Norður-Múlasýslu, kammerráði *Páli Melsteð* veitt Árnessýsla.

S. d. Sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu, *Stefáni Gunlögsen* veitt Gullbringu- og Kjósarsýsla.

S. d. Cand. juris *Þórði Jónassen* veitt Eyjafjarðarsýsla.

1) Með umboðsskrá konungs 5. marz 1816 hafði verið skipuð sams konar nefnd, en í henni var enginn Íslendingur nje íslenzkur embættismaður (Lovs. for Isl. VII, 579).

24. febr. Cand. juris *Jóhanni Árnasyni* veitt Þingeyjarsýsla.

S. d. Exam. juris *Þorkeli Gunnlaugssyni* veitt Ísafjarðarsýsla.

S. d. Cand. juris *Carl Ferdinand Walsöe* veitt Norður-Múlasýsla.

11. apríl Kopíista í Geheime-Arkívinu *Halldóri Einarssyni* veitt Borgarfjarðarsýsla.

28. apríl Cand. pharm. *Jóhanni Georg Möller* veitt leyfisbrjef til að stofna lyfjabúð í Stykkishólmi

13. maí Cand. chir. *Andreas Peter Jensen* skipaður hjeraðslæknir á Vestfjörðum.

30. oktbr. Sjera *Páli Pjeturssyni* á Rómey veitt Hillerslev og Kaastrup prestakall í Álaborgar stipti.

4. nóv. Prófasti og presti í Odda *Helga Guðmundssyni Thordersen* veitt Reykjavíkur dómkirkjubrauð.

## 1836.

9. febr. Cand. theol. *Benedikt Scheving* skipaður prestur á Rómey í Rípa stipti.

9. apríl Geheime-Arkivarius *Finnur Magnússon* kjörinn Dr. philos. af háskólanum í Greifswalde.

29. apríl Sýslumanni í Mýra- og Hnappadalssýslu, *Eiríki Sverrissyni* veitt Rangárvallasýsla.

29. apríl Sjera *Ásmundi Jónssyni* að Breiðabólstað á Skógarströnd veittur Oddi á Rangárvöllum.

14. júní Lyfsala *Jóhanni Georg Möller* veitt leyfisbrjef til að vera lyfsali í Reykjavík.

10. sept. Kopíista í landsyfirdóminum í Kaupmannahöfn, *Bertel Holm Borgen* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla.

25. sept. Fyrri assessor í landsyfirdóminum, *Þórður Sveinbjörnsson* skipaður jústitiaríus.

15. sept. Sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, *Þórður Jónassen* skipaður 1. assessor í landsyfirdóminum.

S. d. Cand. juris *Jón Johnsen* skipaður 2. assessor í landsyfirdóminum.

22. sept. Sýslumaður í Suður-Múlasýslu, kammerráð *Morten Hansen Tvede* skipaður landfógeti og bæjarfógeti í Reykjavík.

24. sept. Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu *Lorenz Angel Krieger* skipaður stiptamtmaður í Álaborgar stipti og amtmaður í Álaborgar amti.

28. oktbr. *Steingrímur Jónsson*, biskup yfir Íslandi, og *Finnur Magnússon*, Geheime Arkivarius sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

## 1837.

11. febr. Bæjarfógeti í Frederikssund, kammerjunker *Carl Emil Bardenfleth* skipaður amtmaður í suðuramtinu og settur fyrst um sinn stiptamtmaður.

6. maí Sýslumanni í Mýra- og Hnappadalssýslu, *Bertel Holm Borgen* veitt Eyjafjarðarsýsla.

S. d. Cand. juris *Morten Frederik Lund* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla.

26. ágúst Sjera *Pjetri Pjeturssyni* að Breiðabólstað á Skógarströnd veittur Staðastaður.

26. sept. *Brandur Jónsson* á Broddanesi og *Sveinn Alexandersson* á Ytri-Sólheimum sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

7 oktbr. Kopíista í landsyfirdóminum í Kaupmannahöfn, *Jóhanni Cristopher Voigt* veitt Suður-Múlasýsla.

S. d. Sýslumanni í Snæfellsnessýslu, *Kristjáni Magnúsen* veitt Dalasýsla.

7. oktbr. Cand. juris *Sigfúsi Schulesen* veitt Snæfellsnessýsla.

## 1838.

26. maí Cand. pharm. *Börge Esajas Bernhoff Jacobsen* veitt leyfisbrjef til að stofna lyfjabúð í Stykkishólmi.

26. júní Settur stiptamtmaður *Carl Emil Bardenfleth* skipaður stiptamtmaður yfir Íslandi.

22. ágúst *Carl Emil Bardenfleth*, stiptamtmaður, *Bjarni Thorsteinson*, amtmaður, *Bjarni Thórarensen* amtmaður, *Steingrímur Jónsson*, biskup, *Þórður Sveinbjörnsson*, jústitiaríus, *Árni Helgason* stiptsprófastur, *Morten Hansen Tvede*, kammerráð og landfógeti, *Páll Melsteð*, kammerráð og sýslumaður, *Björn Auðunarson Blöndal*, sýslumaður, og *Jón Jónsson*, sýslumaður skipaðir í embættismanna nefnd í Reykjavík (Lovs. for Isl. XI. 262. 271).

28. ágúst Amtmaður í Veile amti *Peter Fjeldsted Hoppe* skipaður standaþingmaður í stað stiptamtmanns L. A. Kriegers († 4. maí 1838).

9. oktbr. Land- og bæjarfógeti, kammerráð *Morten Hansen Tvede* skipaður sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu.

S. d. Sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu *Stefán Gunlögsen* skipaður landfógeti.[1]

4. des. Landfógeti *Stefán Gunlögsen* jafnframt skipaður bæjarfógeti í Reykjavík.

## 1839.

14. maí Sýslumannni í Vestmannaeyjasýslu *Jóhanni*

1) Jafnframt fjekk hann í stað Tvedes sæti í embættismannanefndinni.

| | |
|---|---|
| | *Nicolai Abel* veitt lausn í náð frá embætti. |
| 28. maí | Philol. cand. *Bjarni Johnsen* skipaður aðjunkt við Álaborgar skóla. |
| 4. júní | Geheime-Arkivarius Dr. philos. *Finnur Magnússon* sæmdur etâzráðs nafnbót. |
| 14. sept. | Dr. med.[2] *Jón Jónsson Hjaltalín* skipaður hersveitarlæknir við herdeild konungs sjálfs. |
| 21. sept. | Lækni á Vestmannaeyjum *Carl Hans Ulrik Bolbroe* veitt lausn í náð frá embætti. |
| S. d. | Fjórðungslækni í vesturamtinu *Oddi Jónssyni Hjaltalín* veitt lausn í náð frá embætti. |

## 1840.

| | |
|---|---|
| 1. febr. | Cand. med. & chir. *Andreas Iversen Haalland* skipaður læknir á Vestmannaeyjum. |
| S. d. | Cand. med. & chir. *Georg Victor Koefoed* skipaður hjeraðslæknir í syðra læknisumdæmi vesturamtsins. |
| 18. marz | Fyrrum sýslumanni *Jóhanni Nicolai Abel* veitt aptur Vestmannaeyjasýsla. |
| 11. apríl | Lyfsala *Oddi Thórarensen* veitt aptur leyfisbrjef til að stofna lyfjabúð á Akureyri. |
| 11. maí | Prófastur og prestur að Staðastað *Pjetur Pjetursson* kjörinn Licentiatus theol. af Kaupmannahafnar háskóla. |
| 16. maí | *Eiríkur Sveinsson* á Ási í Holtum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna. |
| 22. júní | Stiptamtmanni, kammerherra *Pjetri Fjeldsted Hoppe* veitt lausn frá að vera standaþingmaður fyrir Ísland og Færeyjar. |

2) Hann hafði sama ár verið kjörinn Dr. med. af háskólanum í Kiel.

S. d. Bæjarfógeti, etazráð *Grímur Johnsson* skipaður standaþingmaður fyrir Ísland og Færeyjar.

28. júní Lector theol. *Jón Johnsen* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu, *Carl Emil Bardenfleth* sæmdur kammerherra nafnbót.

12. júlí Sjera *Guðni Guðmundsson* á Ólafsvöllum og *Sæmundur Steindórsson* á Auðsholti sæmdir heiðurspeningnum »ærulaun iðju og hygginda«.

23. septbr. *Kristján Guðmundsson* í Vigur sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

25. oktbr. Sjera *Benedikt Scheving* á Rómey veitt Hammer og Horsens prestakall í Álaborgar stipti.

## 1841.

14. jan. Cand. juris *Þórður Guðmundsson* skipaður sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu.

30. jan. Sjera *Benedikt Scheving* leyft að vera kyrr sem sóknarprestur á Rómey.

21. apríl Stiptamtmaður, kammerherra *Carl Emil Bardenfleth* skipaður hirðstjóri hjá ríkisarfa.

S. d. Committeret í rentukammerinu kammerjunker *Thorkel Abraham Hoppe* skipaður stiptamtmaður yfir Íslandi og amtmaður í suðuramtinu.

8. maí *Einar Guðmundsson*, umboðsmaður, á Hraunum, og *Methusalem Árnason* á Bustarfelli sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

12. maí Stiptamtmaður yfir Íslandi *Thorkel Abraham Hoppe* sæmdur kammerherra nafnbót.

10. júní *Steingrímur Jónsson*, biskup, sæmdur kommandörkrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. *Bjarni Thorsteinson*, amtmaður, sæmdur heiðheiðursmerki dannebrogsmanna.

S. d. *Bjarni Thórarensen*, amtmaður, *Þórður Sveinbjörnsson*, jústitiaríus, *Helgi Thordersen*, dómkirkjuprestur, og *Páll Melsteð*, kammerráð og sýslumaður, sæmdir riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

28. septbr. Sýslumanni í Snæfellsnessýslu, *Sigfúsi Schulesen* veitt Suður-Þingeyjarsýsla.

S. d. Cand. juris *Arnóri Árnasyni* veitt Norður-Þingeyjarsýsla (Lovs. for Isl. XII. 166).

21. nóvbr. Geheime.Arkivaríus, etazráð *Finnur Magnússon*, bæjarfógeti, etazráð *Grímur Johnsson*, og amtmaður *Frederik Ferdinand Tillisch* endurkjörnir standaþingmenn fyrir Ísland og Færeyjar.

## 1842.

13. jan. Sjera *Jóni Halldórssyni* á Barkarstöðum veittur Breiðabólstaður í Fljótshlíð.

19. marz Landlæknir *Jón Thorstensen* sæmdur jústizráðs nafnbót.

15. apríl Umboðsmanni Arnarstapaumboðs *Árna Thorsteinsen* veitt Snæfellsnessýsla ásamt umboðinu.

27. maí Bæjarfógeti í Middelfart, etazráð *Grímur Johnsson* skipaður amtmaður í norður- og austuramtinu.

1. júlí Bataillonschirurg Dr. med. *Jón Jónsson Hjaltalín* skipaður læknir við 5. herdeild fótgönguliðsins.

17. oktbr. Bæjarfógeti, kansellísekreteri *Jón Finsen* sæmdur kansellíráðs nafnbót.

## 1843.

8. marz Amtmaður í vesturamtinu *Bjarni Thorsteinson* sæmdur konferenzráðs nafnbót.

16. marz *Jón Sigurðsson* á Álptanesi á Mýrum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

29. apríl Sjera *Jón Gíslason* á Breiðabólsstað á Skógarströnd sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

19. septbr. Stiptamtmaður á Fjóni, kammerherra *Carl Emil Bardenfleth* skipaður konungsfulltrúi á næsta alþingi (sbr. opið brjef 18. september 1843).

23. septbr. *Bjarni Thorsteinson,* konferenzráð og amtmaður, *Þórður Sveinbjörnsson,* jústitíaríus, *Steingrímur Jónsson,* biskup, *Þórður Jónassen,* landsyfirdómari, *Helgi Thordersen* dómkirkjuprestur, og *Björn Auðunarson Blöndahl,* sýslumaður skipaðir konungkjörnir alþingismenn.

*Jón Thorstensen,* jústizráð og landlæknir, og *Jón Pjetursson,* prófastur, í Steinnesi († 1842) skipaðir konungkjörnir varaþingsmenn.

S. d. *Páll Melsteð,* kammerráð og sýslumaður skipaður aðstoðarmaður konungsfulltrúa á alþingi.

1. nóvbr. Sýslumanni í Strandasýslu *Jóni Jónssyni* veitt lausn í náð frá embætti og jafnframt sæmdur kammerráðs nafnbót.

17. nóvbr. Aðjunkt við Bessastaðaskóla, *Sveinbjörn Egilsson* kjörinn Dr. theol. af háskólanum í Breslau.

## 1844.

7. marz *Jón Einarsson* á Kópsvatni í Hreppum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

21. marz Prófastur og prestur að Staðastað, Lic. theol. *Pjetur Pjetursson* kjörinn Dr. theol. af Kaupmannahafnarháskóla.

9. apríl Sýslumanni í Skaptafellssýslu *Magnúsi Stephensen* veitt Rangárvallasýsla.

S. d. Cand. juris *Brynjólfi Pjeturssyni* veitt Skaptafellssýsla.

S. d. Cand. juris *Jóni Pjeturssyni* veitt Strandasýsla.

10. apríl *Halldór Jónsson*, prófastur og prestur í Glaumbæ, skipaður konungkjörinn varaþingmaður á alþingi fyrir andlegu stjettina.

S. d. Bæjarfógeti í Ringkjöbing, kansellíráð *Jón Finsen* skipaður hjeraðsfógeti í Hasle, Vesterlisberg, Framlev og Sabro hjeruðum í Árósa amti.

10. maí Geheime-Arkivarius, etazráði *Finni Magnússyni*, og amtmanni *Grími Johnssyni* veitt lausn frá að vera standaþingmenn.

20. júlí Sýslumanni í Ísafjarðarsýslu, *Þorkeli Gunnlaugssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

20. septbr. *Jón Snorrason* í Sölvhól við Reykjavík sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

29. nóvbr. Lector theol. *Jóni Jónssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

25. desbr. Hjeraðslæknir í syðra læknishjeraði vesturamtsins *Georg Victor Koefoed* skipaður læknir í herliðinu.

## 1845.

7. jan. Íslenzkur kaupmaður, *Hans Arreboe Clausen* sæmdur agents nafnbót.

27. febr. Fyrrum fjórðungslæknir *Jón Sigurður Ögmundsen* skipaður hjeraðslæknir í Rípum.

25. apríl Sýslumaður í Skaptafellssýslu, *Brynjólfur Pjetursson* skipaður ritstofufulltrúi í rentukamminu.

S. d. Cand. juris *Kristjáni Christianssyni* veitt Skaptafellssýsla.

S. d. Cand. juris *Jörgen Peter Havsteen* veitt Norður-Múlasýsla.

S. d. Cand. juris *Eggert Olafi Briem* veitt Ísafjarðarsýsla.

27. apríl Lækni á Vestmannaeyjum *Andreas Iversen Haalland* veitt lausn í náð frá embætti.

5. júní Geheime-Arkivarius, etazráði *Finni Magnússyni* leyft að bera riddarakross heiðursfylkingarinnar frakknesku.

21. júní Geheime-Arkivarius, etazráði *Finni Magnússyni* leyft að bera riddarakross hinnar prússnesku rauðu arnar.

26. júní Cand. med & chir. *Gísli Hjálmarsson* skipaður hjeraðslæknir í báðum Múlasýslum og Austur-Skaptafellssýslu.

18. júlí Cand. med. & chir. *Edvard Constantin Lind* skipaður hjeraðslæknir í syðra læknishjeraði vesturamtsins.

28. júlí Cand. med. & chir, *August Ferdinand Schneider* skipaður læknir á Vestmannaeyjum.

25. septbr. Dómkirkjuprestur *Helgi Guðmundsson Thordersen* skipaður biskup yfir Íslandi.

5. nóvbr. Cand. philos. *Jóhanni Kristjáni Briem* veittur Hruni í Ytrahrepp.

## 1846.

19. marz Hjeraðslækni á Vestfjörðum *Andreas Peter Jensen* veitt lausn í náð frá embætti.

27. apríl Aðjunkt við Bessastaðaskóla, Dr. theol. *Sveinbjörn Egilsson* skipaður rektor við Reykjavíkurskóla.

27. apríl Aðjunkt við Bessastaðaskóla, Dr. phil. *Hallgrímur Scheving* skipaður yfirkennari við Reykjavíkurskóla.

S. d. Aðjunkt við Bessastaðaskóla *Björn Gunnlaugsson* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla

S. d. Cand. philos. *Konráð Gíslason* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla.

29. apríl Prófasti og presti í Odda *Ásmundi Jónssyni* veitt Reykjavíkur dómkirkjubrauð.

4. maí Lækni í landhernum, Dr. med. *Jóni Jónssyni Hjaltalín* veitt lausn í náð frá embætti.

12. júní Aðjunkt við Álaborgarskóla *Bjarni Johnsen* skipaður yfirkennari við Horsens skóla.

4. júlí Geheime-Arkivaríus, etazráði *Finni Magnússyni* leyft að bera riddarakross norðurstjörnunnar.

26. júlí Sýslumaður í Húnavatnssýslu *Björn Auðunarson Blöndahl* sæmdur kansellíráðs nafnbót (✝ 23/6 1846).

7. ágúst Sjera *Benedikt Scheving* á Rómey veitt Kollerup og Vindelev prestakall í Rípastipti.

14. sept. Stiptamtmaður á Íslandi, kammerherra *Thorkel Abraham Hoppe* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

18. sept. Aðjunkt við Reykjavíkurskóla *Björn Gunnlaugsson* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Cand. juris *Vigfús Erichsen* sæmdur kammerassessors nafnbót.

S. d. Konferenzráði *Bjarna Thorsteinsyni* veitt lausn frá að vera konungkjörinn alþingismaður.

S. d. Kammerráði *Páli Melsteð* veitt lausn frá að vera aðstoðarmaður konungsfulltrúa á alþingi.

S. d. Sýslumaður *Kristján Christiansson* skipaður aðstoðarmaður konungsfulltrúa á alþingi.

S. d. Kammerráð, sýslumaður *Páll Melsteð* skipaður konungkjörinn alþingismaður.

S. d. Prófastur, Dr. theol. *Pjetur Pjetursson* og sýslumaður í Snæfellsnessýslu, *Árni Thorsteinsen* skipaðir konungkjörnir varaþingmenn.

23. sept. Sjera *Markúsi Jónssyni* á Holti undir Eyjafjöllum veittur Oddi á Rangárvöllum.

14. desbr. Stiptamtmaður á Fjóni, kammerherra *Carl Emil Bardenfleth* skipaður konungsfulltrúi á alþingi 1847.

## 1847.

22. jan. Ritstofufulltrúi í rentukammerinu *Brynjólfur Pjetursson* sæmdur kammerassessors nafnbót.

8. marz Sýslumaður í Mýra- og Hnappadalssýslu *Morten Frederik Lund* skipaður bæjar- og ráðstofuritari í Nakskov og hjeraðsfógeti í norðurhjeraði.

12. marz Cand. med. & chir. *Peter Anton Schleisner* skipaður til að rannsaka ginklofann á Vestmannaeyjum (Lovs. for Isl. XIII. 648).

17. marz Cand. med. & chir. *Johan Peter Weywadt* skipaður hjeraðslæknir á Vestfjörðum.

28. marz Landlæknir, jústizráð *Jón Thorstensen* kjörinn Dr. philos. af háskólanum í Marburg.

7. maí Committeret í General-Toldkammer og Commerse-Collegiet *Matthias Hans Rosenörn* skipaður stiptamtmaður á Íslandi og amtmaður í suðuramtinu frá 1. ágúst (sbr. Lovs. for Isl. XIII. 357).

10. maí Sýslumanni í Strandasýslu *Jóni Pjeturssyni* veitt Borgarfjarðarsýsla.

S. d. Sýslumanni í Norður-Þingeyjarsýslu *Arnóri Árnasyni* veitt Húnavatnssýsla.

10. maí. Exam. juris *Brynjólfi Svenzyni* veitt Barðastrandarsýsla.

27. maí Prófastur og prestur á Staðastað Dr. theol. *Pjetur Pjetursson* skipaður lector theol. og forstöðumaður prestaskólans í Reykjavík (Lovs. for Isl. XIII. 702).

10. júní Sýslumaður í Vestmannaeyjasýslu, *Johan Nicolai Abel*, og fyrrum settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, *Guðbrandur Jónsson* sæmdir kammerráðs nafnbót.

28. júní Stiptamtmaður á Íslandi *Mathias Hans Rósenörn* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Land- og bæjarfógeti *Stefán Gunlögsen* sæmdur kammerráðs nafnbót.

19. júlí Sýslumaður í Suður-Múlasýslu, *Jóhan Christopher Voigt* skipaður bæjarfógeti í Lemvig og hjeraðsfógeti í Skodborg og Vandfuld hjeruðum.

27. ágúst Sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, *Bertel Holm Borgen* skipaður hjeraðsfógeti í Fjends og Nörlyng hjeruðum í Vebjarga amti.

17. sept. Cand. theol. *Sigurður Melsteð* skipaður 2. kennari við prestaskólann í Reykjavík.

8. okt. *Skúli P. Chr. Th. Thorlacius* skipaður 2. kopíisti í skjalaritstofu kanselliisins.

14. okt. *Þorgeir Andrjesson* á Króki í Rosmhvalanesshreppi sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

13. nóv. Cand. theol. *Jens Sigurðssyni* veittur Staðastaður.

19. nóv. Bæjarfógeti í Ebeltoft, yfirauditör *Ólafur Stephensen* skipaður bæjarfógeti í Varde og hjeraðsfógeti í Austur- og Vesturhjeruðum.

## 1848.

18. apríl Prestur að Staðastað, *Jens Sigurðsson* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla.

2. maí Aðjunkt við Reykjavíkurskóla *Konráð Gíslason* skipaður aukakennari við háskólann sem lector í norðurlandamálum.

6. maí 2. assessor í landsyfirdóminum *Jón Johnsen* skipaður bæjarfógeti í Álaborg, birkidómari í Álaborgar birki og hjeraðsfógeti í nokkrum hluta af Fleskum hjeraði.

18. maí Cand. theol. *Hannesi Arnasyni* veittur Staðastaður.

25. maí Sýslumaður í Dalasýslu *Kristján Magnúsen* sæmdur kammerráðs nafnbót.

1. júní Sýslumanni í Ísafjarðarsýslu *Eggerti Ólafi Briem* veitt Eyjafjarðarsýsla.

S. d. Sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu *Jóni Pjeturssyni* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla.

S. d. Cand. juris *Þorsteini Jónssyni* veitt Suður-Múlasýsla.

2. júní Cand. philos. *Halldór Kristján Friðriksson* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla.

30. júní Land- og bæjarfógeta, kammerráði *Stefáni Gunlögsen* veitt lausn í náð sem bæjarfógeti í Reykjavík.

8. júlí Jústitiarius í landsyfirdóminum *Þórður Sveinbjörnsson* sæmdur konferenzráðs nafnbót.

S. d. Sýslumaður í Árnessýslu, kammerráð *Páll Melsteð* sæmdur jústizráðs nafnbót.

S. d. Sýslumaður í Skaptafellssýslu, *Kristján Christiansson* sæmdur kammerráðs nafnbót.

28. júlí Landfógeta, kammerráði *Stefáni Gunlögsen* veitt lausn í náð frá landfógetaembættinu.

8. ágúst Mag. artium *Grímur Thomsen* skipaður kansellisti í utanríkisstjórninni

2 septbr. Lækni á Vestmannaeyjum *August Ferdinand Schneider* veitt lausn í náð frá embætti.

13. septbr. Undiroffiseri í landhernum *Sæmundur Gunlögsen* sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

29. septbr. Sýslumaður í Skaptafellssýslu, kammerráð *Kristján Christiansson* skipaður 2. assessor og dómsmálaritari í landsyfirdóminum.

S. d. Fyrrum stiptamtmaður á Íslandi, kammerherra *Thorkel Abraham Hoppe* skipaður amtmaður yfir Sóreyjar amti.

10. nóvbr. Ritstofufulltrúi í rentukammerinu, kammerassessor *Brynjólfur Pjetursson* skipaður forstöðumaður hinnar íslenzku stjórnardeildar (Lovs. for Isl. XIV. 204. 209).

8. desbr. Stjórnardeildar-forstöðumaður *Brynjólfur Pjetursson* sæmdur jústizráðs nafnbót.

S. d. Cand. juris *Oddgeir Stephensen* skipaður ritstofustjóri í hinni íslenzku stjórnardeild og sæmdur kammerráðs nafnbót.

S. d. Kansellisti í dómsmálastjórninni *Carl Peter Gram Leuning* skipaður ritstofufulltrúi í hinni íslenzku stjórnardeild.

S. d. Ritstofuforstjóri í rentukammerinu, kammerráð *Hans Peter Koefoed* skipaður forstjóri fyrir endurskoðunarritstofu hinnar íslenzku stjórnardeildar.

S. d, Ritstofufulltrúi í rentukammerinu *Niels Secher* skipaður ritstofufulltrúi í endurskoðunarritstofu hinnar íslenzku stjórnardeildar.

Konungkjörnir þingmenn fyrir Ísland á þingi því, er kom saman í Kaupmannahöfn 23. október 1848 til að semja stjórnarskrá fyrir Danaveldi (Lovs. for Isl. XIV. 136. 193):

*Brynjólfur Pjetursson*, kammerrassessor,
*Jón Guðmundsson*. alþingismaður,
*Jón Johnsen*, alþingismaður, bæjarfógeti,
*Jón Sigurðsson*, alþingismaður, og
*Konráð Gíslason*, lector við háskólann.

## 1849.

| | |
|---|---|
| 15. jan. | *Jón Björnsson Stephensen* á Korpúlfsstöðum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna. |
| 8. febr. | Prestur að Gloslunde og Græshauge *Þorgeir Guðmundsson* skipaður prestur að Nysted og Herritslev á Lálandi. |
| 2. marz | Amtmanni í Vesturamtinu, konferenzráði *Bjarna Thorsteinsyni* veitt lausn í náð frá embætti. |
| 12. maí | Sýslumaður í Árnessýslu, jústizráð *Páll Melsteð* skipaður amtmaður í vesturamtinu. |
| S. d. | Assessor *Kristján Christiansson* skipaður konungkjörinn alþingismaður. |
| S. d. | Sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu *Þórður Guðmundsson* skipaður konungkjörinn varaþingmaður |
| 16. maí | Lector theol. *Pjetur Pjetursson* sæmdur prófessors nafnbót. |
| S. d. | Sjera *Jón Jónsson* á Grenjaðarstað sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar. |
| 19. maí | Amtmaður *Páll Melsteð* skipaður konungsfulltrúi á alþingi 1849. |
| 1. júlí | *Björn Olsen*, umboðsmaður á Þingeyrum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna. |
| 10. júlí | Assessor í landsyfirdóminum, *Kristján Christiansson* skipaður landfógeti og bæjarfógeti í Reykjavík. |
| 9. septbr. | *Guðmundur Þorvaldsson*, dáti úr Eyjafirði, sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna. |

21. septbr. Stiptamtmaður á Íslandi, *Matthias Hans Rosenörn* skipaður ráðherra innanríkis-málefna.

28. septbr. *Árni Magnússon*, á Stóra-Ármóti í Flóa, sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

S. d. *Bjarni Thorsteinson*, konferenzráð,
*Þórður Sveinbjörnsson*, konferenzráð,
*Helgi Thordersen*, biskup,
*Páll Melsteð*, amtmaður,
*Pjetur Pjetursson*; professor, Dr. theol og
*Halldór Jónsson*, prófastur
skipaðir konungkjörnir þjóðfundarmenn.

## 1850.

10. febr. Yfirauditör *Jörgen Ditlev* greifi *Trampe* skipaður stiptamtmaður og amtmaður í suðuramtinu.

14. maí Sjera *Hannes Árnason* á Staðastað skipaður 2. dócent við prestaskólann í Reykjavík.

16. maí Sýslumaður í Norður-Múlasýslu, *Jörgen Peter Havsteen* skipaður amtmaður í norður- og austuramtinu.

S. d. Sýslumaður í Mýra- og Hnappadalssýslu *Jón Pjetursson* skipaður 2. assessor og dómsmálaritari í landsyfirdóminum.

S. d. Sýslumanni í Gullbringu- og Kjósarsýslu, *Þórði Guðmundssyni* veitt Árnessýsla.

S. d. Sýslumanni í Barðastrandarsýslu *Brynjólfi Svenzyni* veitt Borgarfjarðarsýsla.

S. d. Sýslumaður í Rangárvallasýslu *Magnús Stephensen* sæmdur kammerráðs nafnbót.

30. maí Sjera *Sveini Níelssyni* á Staðarbakka veittur Staðastaður.

18. ágúst Konferenzráði *Bjarna Thorsteinsyni* veitt lausn frá að vera konungkjörinn þjóðfundarmaður.

18. ágúst Landsyfirdómari *Þórður Jónassen* skipaður konungkjórinn þjóðfundarmaður.

5. oktbr. Bæjarfógeti í Álaborg, assessor *Jón Johnsen* sæmdur jústizráðs nafnbót.

19. desbr. Hjeraðslækni á Vestfjörðum *Jóhanni Peter Weiwadt* veitt lausn í náð frá embætti.

## 1851.

1. maí Sýslumaður í Suður-Þingeyjarsýslu *Sigfús Schulesen* skipaður sýslumaður í allri Þingeyjarsýslu (Lovs. for Isl. XV. 76).

S. d. Sýslumanni í Suður-Múlasýslu *Þorsteini Jónssyni* veitt Norður-Múlasýsla.

S. d. Kopíista í krímínal- og pólitírjettinum *Christen Willemoes* veitt Mýra- og Hnappadalssýsla.

S. d. *Þórður Jónsson* á Rauðkollsstöðum sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

19. maí Stiptamtmaður *Jörgen Ditlev* greifi *Trampe* skipaður konungsfulltrúi á þjóðfundinum.

15. júní Rektor við Reykjavíkurskóla, Dr. theol. *Sveinbirni Egilssyni* veitt lausn í náð frá embætti.

S. d. Yfirkennari við Horsens skóla *Bjarni Johnsen* skipaður rektor við Reykjavíkurskóla.

S. d. Aðjunkt *Björn Gunnlögsson* skipaður yfirkennari við Reykjavíkurskóla í stað Dr. philos. *Hallgríms Schevings*, sem hafði fengið lausn í náð frá embætti frá 1. október 1850.

21. septbr. Sýslumaður í Árnessýslu, *Þórður Guðmundsson* sæmdur kammerráðs nafnbót.

S. d. Amtmaður í vesturamtinu, *Páll Melsteð*, sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

28. septbr. Cand. juris *Vilhjálmur Ludvig Finsen* skipaður sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu.

28. septbr. Land- og bæjarfógeti, kammerráð *Kristján Christiansson* settur frá embætti með eptirlaunum.

## 1852.

29. marz Ritstofustjóri, kammerráð *Oddgeir Stephensen* skipaður forstöðumaður hinnar íslenzku stjórnardeildar og sæmdur jústizráðs nafnbót.

23. apríl Sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu *Vilhjálmur Ludvig Finsen* skipaður land- og bæjarfógeti.

S. d. Cand. juris *Niels Valdemar Lassen* skipaður sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu.

S. d. Exam. juris *Árni Gíslason* skipaður sýslumaðmaður í Skaptafellssýslu.

2. maí *Jón Flóventsson* á Stóra-Dunhaga í Eyjafirði sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna.

26. maí Cand. philos. *Gísli Magnússon* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla.

27. júní Sýslumanni í Vestmannaeyjasýslu *Jóhanni Nicolai Abel* veitt lausn í náð frá embætti.

30. júlí Cand. med. & chir. *Philip Theodor Danielsen* skipaður læknir á Vestmannaeyjum.

6. oktbr. Forstöðumaður prestaskólans, prófessor Dr. theol. *Pjetur Pjetursson* sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar.

S. d. Fyrri assessor í landsyfirdóminum, *Þórður Jónassen* sæmdur jústizráðs nafnbót.

15. oktbr. Kopíisti í skjalaritstofu kansellíisins, *Skúli P. Chr. Th. Thorlacius* skipaður registrator við skjalasafn dómsmálastjórnarinnar.

## 1853.

12. jan. Sýslumanni í Skagafjarðarsýslu *Lárusi Thórarensen* veitt lausn í náð frá embætti.

16. marz Cand. med. & chir. *Jóhannes Clausen* skipaður hjeraðslæknir á Vestfjörðum.

21. apríl Amtmaður í vesturamtinu, *Páll Melsteð* skipaður konungsfulltrúi á alþingi 1853.

S. d. *Þórður Sveinbjörnsson*, konferenzráð, jústitíaríus,
*Jörgen Peter Havsteen*, amtmaður,
*Helgi Thordersen*, biskup yfir Íslandi,
*Þórður Jónassen*, jústizráð, landsyfirdómari,
*Pjetur Pjetursson*, prófessor, Dr. theol. og
*Þórður Guðmundsson*, kammerráð, sýslumaður
skipaðir konungkjörnir alþingismenn.
*Vilhjálmur Finsen*, land- og bæjarfógeti, og
*Þórarinn Kristjánsson*, prófastur, á Prestsbakka
skipaðir konungkjörnir varaþingmenn.

25. apríl Cand. juris, kapteini *Andreas August Kohl* veitt Vestmannaeyjasýsla.

S. d. Cxam. juris *A. C. Baumann* veitt Gullbringu- og Kjósarsýla.

25. ágúst Cand. theol. *Jónas Guðmundsson* skipaður aðjunkt við Reykjavíkurskóla.

6. oktbr. *Helgi Thordersen*, biskup yfir Íslandi, og
*Árni Helgason*, stiptsprófastur
sæmdir heiðursmerki dannebrogsmanna.

6. oktbr. Lector við Kaupmannahafnar háskóla, *Konráð Gíslason* sæmdur prófessors nafnbót.

---

Um

# Baldvin Einarsson

eftir

*Boga Th. Melsteð.*

## I.

Eptir langa baráttu hafa nú Íslendingar fengið sjálfsforræði yfir sjermálum sínum. Eptir margra alda útivist hefur stjórn landsins aptur fengið aðsetur sitt innanlands. Miklar voru innbyrðisdeilur forfeðra vorra á 13. öld; stórkostleg var blindni þeirra, eigingirnd og metnaður; þungar voru syndir þeirra, enda voru afleiðingarnar að sama skapi, margra alda eymd, vesaldómur og vanvirðing niðja þeirra.

Sannarlega má þjóðin minnast með þakklæti þeirra manna, sem unnið hafa að því með einlægum hug og hjarta, að vekja hana úr langvinnu hugsunarleysi og aðgjörðaleysi til umhugsunar og framkvæmda, og að ná aptur handa henni svo miklu frelsi og sjálfstæði, að hún gæti notið krapta sinna. Einn af þessum mönnum var Baldvin Einarsson. Hann heimtaði að vísu aldrei sjálfsforræði handa Íslendingum yfir sjermálum þeirra. Hann var of snemma uppi og æfi hans var of skömm til þess að hann gæti það, en hann sagði fyrstur manna hátt

og snjallt, er um stjórnarfar landsins var að ræða, að »Ísland ætti að vaxa eptir sínu eigin vaxtarlagi, ef því er vöxtur ætlaður, og eigi eptir annara landa, því annars er hætt við að það fái æxli og annan vanskapnað, sem lini þess heilsu og veiki þess krapta«[1]. Hann skildi það betur en allir aðrir menn, þá er rætt var um að setja ráðgefandi þing á stofn í Danaveldi, að Ísland þurfti að fá ráðgefandi þing fyrir sig, í landinu sjálfu og að það ætti að vera eins sjálfstætt eins og þingin í Danmörku og eigi lúta þeim í neinu nje bera mál sín fram fyrir þau, heldur stjórnina sjálfa, og hann skýrði þetta mikilvæga mál betur fyrir almenningi en nokkur annar maður. Hann skildi einnig glöggar en nokkur annar Íslendingur á þeim dögum, hve þýðingarmikið gott uppeldi er, og að með uppeldinu á að gjöra góðan og nýtan borgara úr hverju barni.

Baldvin var sá lánsmaður, að vera uppi á þeim tímum, þá er frelsistilfinning fór alment að vakna meðal manna í hinum mentuðu löndum og borgararnir tóku að meta rjettilega manngildi sitt; og Ísland var svo heppið að eiga þá annan eins mann á æskuskeiði eins og Baldvin, því að hann skildi frelsishreifingarnar í Norðurálfunni og beindi þeim heim til Íslands og skýrði þær fyrir löndum sínum.

Baldvins naut eigi lengi við. Hann andaðist 31 ára gamall. Hann fjekk að eins í hjáverkum sínum í fjögur eða í fimm ár færi til að vinna að framförum þjóðarinnar, en þó var verk hans svo þýðingarmikið, að nafn hans mun lifa um ókomnar aldir meðal landa hans, á meðan þeir hirða um rjett sinn, hugsa um hag sinn, velferð og sæmd og skilja rjettilega hvað hefir orðið þeim til þrifa og vanþrifa.

1) **Ármann á alþingi IV, 45.**

Jón Sigurðsson ritaði mjög laglegt »ágrip af æfi Baldvins Einarssonar«, sem prentað er í Nýjum Fjelagsritum, fimtán árum eptir andlát hans, en annars hefur lítið verið um hann ritað. Í hinu fyrsta ágripi af Íslands sögu, sem Íslendingar eignuðust 1880, er hann eigi nefndur á nafn.

Ritgjörð sú, sem hjer fer á eptir, er mestmegnis bygð á ritum og ritgjörðum Baldvins sjálfs, ýmsum skjölum í Ríkisskjalasafninu, brjefum í sama safni frá ýmsum Íslendingum til Finns Magnússonar, brjefum Baldvins til Bjarna amtmanns Thorsteinssonar og nokkrum brjefum frá Baldvin til föður hans. Þeir bræður Árni landfógeti Thorsteinsson og Steingrímur yfirkennari Thorsteinsson hafa ljeð mjer brjef Baldvins til föður þeirra, en Páll sýslumaður Einarsson útvegaði mjer brjef Baldvins til föður hans; kann jeg þeim öllum kærar þakkir fyrir góðvild þeirra og greiða. — Önnur brjef og rit, sem jeg hef notað, eru öll prentuð og hef jeg getið um þau hvert á sínum stað. — Alls og alls skipta brjef þau hundruðum, sem jeg hef haft við samning þessarar ritgjörðar og eru allmörg þeirra löng og fróðleg. Mörg af þeim hefur eigi verið hægt að nota hjer, vegna þess að þá hefði ritgjörð þessi orðið of löng. Er þessi ritgjörð að miklu leyti útdráttur úr annari stærri ritgjörð, er jeg hafði ritað um Baldvin og vildi koma út 1901. Mörg brjef eru til, sem snerta deiluna út af þýðingunni af Jómsvíkinga sögu, og þau eru eigi færri, sem sýna hvernig Íslendingar tóku stjettaþingunum 1832 og ritgjörðum Baldvins um endurreisn alþingis; væri fróðlegt að athuga það mál við annað tækifæri, því að hjer er eigi rúm til þess.

II.

Baldvin Einarsson var fæddur 2. dag ágústmánaðar 1801 á Molastöðum í Fljótum í Skagafjarðarsýslu. Þar bjuggu þá foreldrar hans, Einar Guðmundsson og Guðrún Pjetursdóttir, en síðan fluttu þau að Hraunum í Fljótum. Baldvin var kominn af góðu bændafólki. Faðir hans var mesti merkisbóndi, hreppstjóri í mörg ár og umboðsmaður yfir Reynistaðarklaustri; segir Grímur amtmaður Jónsson um hann í skýrslu um ferð sína í Skagafjarðarsýslu 1826 til Rentukammersins, að hann hafi í mörg ár sýnt frábæran dugnað og þolgæði við stjórn fátækra mála þar í sýslunni. Hann verðskuldi lof og hæfilega viðurkenningu fyrir það við tækifæri.[1] Eptir því varð Einar þó að bíða í 15 ár, en 1841 gerði stjórnin hann að dannebrogsmanni, og sýnir þetta þó lítið sje, hve stjórnin var fljót í snúningum í þá daga.

Guðrún Pjetursdóttir, móðir Baldvins, var bróðurdóttir Jóns læknir Pjeturssonar; eru nokkrir nafnkunnir menn í þeirri ætt og má lesa um það í Nýjum Fjelagsritum.

Um æskuár Baldvins er mjer ekki annað kunnugt en það, sem Jón Sigurðsson segir í æfiágripi hans. Hann ólst upp með foreldrum sínum og var snemma efnilegur og námgjarn. og þótti umfram aðra jafnaldra sína. Þá er hann var fjórtán vetra varði hann öllum frístundum sínum til þess að lesa góðar bækur, með svo mikilli ástundun, að varla sást hann borða mat sinn nema hann hefði bók við hönd sjer. Hann kendi sjer af eigin ramleik að skrifa vel og reikna, og að skilja og lesa danskar bækur. Hann var mannblendinn og framgjarn til að eiga sam-

1) Ísl. Journal 21, nr. 710 (í Ríkisskjalasafninu).

ræður við menn og kynna þeim hugsanir sínar. Í kaupstaðarferðum þótti honum fýsilegt að kynna sjer mál Dana og eiga tal við þá. Vanst honum það svo vel að, að nokkrir danskir menn, sem hann átti tal við, spurðu hvort hann hefði verið í Kaupmannahöfn. Þegar hjer var komið hafði hann numið alla bændavinnu bæði á sjó og landi. Hann var fyrir hákallaskipi föður síns, þá er hann var á 18. ári og aflaði ágæta vel. Áform hans þá var að verða bóndi og þótti hann í öllu fyrirtaks mannsefni. Hann var fjörugur og fimur, öruggur og úrræðagóður hvað sem að höndum bar, lipur í orðum og greindur, hreinskilinn og einarður við hvern sem var að skipta, glaðlyndur og greiðvikinn.

Veturinn 1820—1821 spurði faðir hans hann að, hvort hann vildi ekki læra latínu og fara í skóla; kvað hann sjer virtist hin mikla löngun hans til að lesa bækur benda til, að svo ætti að vera, og kynni með því gáfur hans að verða honum og öðrum að miklu gangi. Baldvin játaði þessu glaðlega, og var þá gjört ráð fyrir að byrja lærdóm um veturinn eptir. Ekki var vika liðin þegar Baldvin hafði fengið sjer Badens latínsku málfræði og orðabók *(Nucleus)*; las hann í þeim með miklum áhuga, þá er ekki bönnuðu sjóróðrar eða sauðageymsla. Ofurlitla tilsögn fjekk hann hjá sjera Jóni Jónssyni á Barði, er var þá búinn að segja lausu brauðinu og var kominn að Efra-Haganesi, skamt frá Hraunum. Prestur hafði svo miklar mætur á Baldvin, að hann lofaði að koma sjálfur til hans á sunnudögum og segja honum til í latínu; var það alls fimm dagar, sem þessu var við komið. Um vorið ritaði Baldvin presti brjef á latínu, og þótti honum það furðanlega vel tekist hafa, sagði, að þó mikils væri áfátt væri samt í því góðir kaflar.

Um haustið 1821 kom faðir Baldvins honum fyrir að Mælifelli til kenslu hjá sjera Jóni prófasti Kon-

ráðssyni, og var hann þar að lærdómi 25 vikur. Vorið eptir var sótt um skóla og fjekkst það. Kom Baldvin í skóla um haustið 1822 og settist efstur í neðra bekk, en haustið eptir (1823) varð hann fimti að ofan í efra bekk. Á sumrum var hann heima og var formaður fyrir skipi föður síns. Haustið 1824 veiktist hann, svo hann komst eigi suður fyr en á góu; var hann þá ekki í skólaröð, en gekk að kenslu og yfirheyrslum jafnt og aðrir meðan skólatíminn stóð, en síðan las hann fram á lestatíma og fjekk góðan vitnisburð kennaranna fyrir ástundun og framfarir í lærdómi og fyrir siðferði. Hann bað þá Árna stiptprófast Helgason að yfirheyra sig, og veitti hann honum það og útskrifaði hann með góðum vitnisburði (1825). Baldvin fór þá norður að Möðruvöllum og gerðist skrifari hjá Grími amtmanni Jónssyni. Um veturinn eptir, aðfaranóttina til 6. febrúar 1826, brann stofan á Möðruvöllum. Baldvin svaf uppi í lopti og vaknaði ekki fyr en ófært var ofan stigann úr loptinu. Hann tók þá það ráð, að hann braut gluggann og stökk út um hann berfættur í nærklæðum einum og barg þannig lífinu, en hann misti þar allan klæðnað sinn og bækur. Eptir brunann fór hann með amtmanni inn á Akureyri og var þar um hríð.[1]

Þetta haust (1826) rjeðst Baldvin til utanferðar til háskólanáms. Hann tók sjer far með Hertu, »briggskipi« Gudmans kaupmanns.[2] Það varð síðfara og kom

1) Ný Fjelagsrit 8. ár bls. VI—VIII.

2) Með Hertu fór þá einnig utan til háskólans Jón Þórarinsson. Hann las guðfræði og tók próf í henni við háskólann. Þeir Baldvin segja báðir í umsókn 31. janúar 1827 til yfirstjórnar háskólans um tvöfaldan styrk af kommuniteti, að þeir hafi mist alt sitt í brunarum á Möðruvöllum nóttina milli 5. og 6. febrúnr 1826; hefur Jón einnig verið skrifari þá á Möðruvöllum. Æ 566 Universitets og de lærde Skolers Sager, í Ríkisskjalasafninu.

Baldvin ekki til Kaupmannahafnar fyr en seint í nóvember.[1] Hann komst því eigi upp til fyrsta prófs við háskólann fyr en eptir nýár, í janúar mánuði 1827 og fjekk hann aðra einkunn *(haud illaudabilis)*. Um haustið í október mánuði tók hann annað próf *(examen philologicum et philosophicum)* með fyrstu einkunn.

Á þessum tímum var annað próf við háskólann miklu víðtækara en nú á dögum. Stúdentar gátu þá eigi byrjað að lesa undir embættispróf, fyr en því var lokið. Baldvin valdi lögfræði til embættisprófs, og fór hann því að lesa lög, þá er hann hafði lokið öðru prófi.

## III.

Nú leið þó eigi á löngu áður en Baldvin tók einnig til annara starfa en þeirra, sem snertu embættisnám hans. Hann hafði frá barnæsku verið eptirtektasamur og athugull um flest, sem fyrir augun bar, og fróðleiksfús mjög. Hann hafði einnig fengið þá reynslu bæði til lands og sjávar, sem bændur fá á Íslandi, og sökum þroska og ágætrar greindar þekti hann hugsunarhátt og hag íslenskrar alþýðu miklu betur en alment er títt um íslenska námsmenn. Erlendis sá hann margt, sem var nýstárlegt fyrir hann, og er eigi efi á því að sumt af því hefur haft vekjandi áhrif á hann, og að hann hefur stundum í huga sínum borið ýmislegt, sem hann sá, saman við það, er átti sér stað á Íslandi. Sjerstaklega mun hann fljótt hafa fundið til þess, hve mikið vantaði

1) 28. nóvbr. 1826 borgaði hann J. Gudmann í Kaupmannahöfn 35 rbd. í seðlum fyrir far og fæði. 31. janúar 1827, er hann hafði lokið examen artium, sótti Baldvin til Rentukammersins um samkvæmt plakati 18. ágúst 1786 § 21, að ferðakostnaðurinn væri honum endurgoldinn. Sbr. Isl. Journal 15. nr. 1178.

á, að sá eini skóli, sem Ísland átti þá, væri í góðu lagi, og hve skamt landsmenn voru á veg komnir í öllu því, er jarðrækt snertir[1].

Veturinn 1827 til 1828 las Baldvin bók eptir háskólakennara Laurids Engelstoft, sem heitir Hugleiðingar um þjóðaruppeldi (*Tanker om Nationalopdragelsen*. Kbhavn 1808). Engelstoft segir að uppeldið sje beinasti vegurinn til þess að vekja þjóðaranda og ættjarðarást; hann eggjar menn á að reyna það, svo að hver danskur maður finni þegar frá fyrstu bernskuárum sínum að hann er borgari í ríkinu. Hann segir að hin göfgu orð ættjarðarást og ættarlands saga sje orðin vanheilög í augum hinna hræsnisfullu feðra. Vjer erum þó bundnir við ættjörðina; sá blettur, sem vjer stígum á, sú tunga, sem vjer tölum, þeir siðir og venjur, sem vjer höfum og eigingirnd vor bindur oss við ættlandið. En til þess að ástin til landsins skuli eigi kólna, heldur lifa með fullu fjöri, á hver maður að fræðast um land sitt; hann á að læra lýsingu þess og sögu; hann á að kynnast lögum þess og stjórnarskipun; hann á að fá ljósa hugmynd um störf og afrek hinna ágætustu manna landsins. En jafnframt þessari andlegu uppfræðslu á að leggja mikla alúð við hið líkamlega uppeldi. Bæði sál og líkama á að herða með líkamlegum æfingum, reglusemi og siðsemi, svo að menn verði hraustir og skynsamir og fagurt samræmi á milli sálar og líkama. Allir unglingar ættu að fá ljós og skipulega samin kver í hend-

1) Jón Sigurðsson ætlar að „Ritgjörð um birkiskóga viðurhald, sáningu og plöntun á Íslandi“, sem Rentukammerið ljet prenta 1827, sje fyrsta rit Baldvins (sbr. Ný Félagsrit 8. ár, bls. VIII—IX), en ritgjörð þessa samdi Oddur læknir Hjaltalín upp úr danskri ritgjörð eptir Laurup. Bjarni amtmaður Thorsteinsson bað hann um það að undirlagi Rentukammersins. Islands Journal 16, nr. 241.

ur um þjóðfjelagið, svo að þeir læri, hvað skylda þeirra er. Ríkið á að helga og halda uppi minningu hinna ágætustu manna þjóðarinnar, það á að vekja hjá mönnum dug og dygð, ættjörðinni til góðs, framfara og frægðar.

Þessi bók hafði vekjandi áhrif á Baldvin. Hann fór nú að hugsa um Ísland og Bessastaðaskóla og hvernig hann væri, og hvað skólanum væri ábótavant til þess að hann ynni landinu það gagn, sem hann ætti að vinna. Einnig íhugaði hann hvernig ráða mætti bót á skólanum, og skrifaði upp hugleiðingar sínar um þetta.

Nokkru síðar vildi svo til, að Engelstoft talaði við Baldvin um að íslenskir námsmenn væru illa að sjer nú um stundir. Baldvin reyndi að skýra fyrir honum að ástæðan til þess væri sú, að skólinn væri svo ófullkominn; aptur á móti mætti eigi um kenna skeytingarleysi meðal kennaranna nje iðjuleysi meðal pilta. Hann bauðst til þess að rita lýsingu af skólanum og ástandinu í honum, og með því að Engelstoft tók því vel, fór Baldvin að nýju að íhuga skólamálið og ritaði ritgjörð um það, sem hann nefndi *»Tanker om det lærde Skolevæsen i Island«*.

Í ritgjörð þessari lýsti Baldvin fyrst mentunarástandinu á Íslandi, og segir að ekkert hafi verið gert síðan á 14. öld til þess að efla verklega þekkingu eða »vísindi« í landinu. Hann skýrði frá upptökum Hóla- og Skálholtsskóla, ástandinu í þeim og endalokum þeirra. Hann lýsti síðan ástandinu í Bessastaðaskóla, kenslustofunum, kenslugreinunum og kensluaðferðinni, einnig efnahag skólans og líkamsæfingum pilta. Hann kom einnig með tillögur um hvernig hægast mundi vera að endurbæta skólann, svo að hann gæti staðið jafnfætis skólum í Danmörku. Því næst leiddi hann rök að því, að þótt landið eignaðist góðan latínuskóla, væri þó eigi sjeð nægilega fyrir þörfum þess. Hann lagði því til að stofnaður væri

skóli í sambandi við latínuskólann, svo að þeir, sem eigi færu utan til háskólans, og yrðu prestar eða eitthvað annað, gætu haldið áfram námi og fengið nokkra þekkingu í verklegum vísindagreinum og æðri þekkingu. Hann vildi að kent væri í skóla þessum, hvernig fara ætti að, þá er ákafir sjúkdómar kæmu fyrir og eigi væri hægt að ná í lækni, því að bráða hjálp yrði að veita. Einnig skyldi kenna guðfræði, heimspeki og náttúrufræði í skóla þessum. Þótt náttúrufræði væri eigi heimtuð undir próf, var þó nauðsynlegt að veita kenslu í henni. Baldvin gerði ráð fyrir að þessi skóli mundi kosta 1000 til 1200 rd. á ári, og að einungis þyrfti að skipa einn nýjan kennara, er skyldi kenna læknisfræði og náttúrufræði.

Ritgjörð þessa fjekk Baldvin prófessor Engelstoft. Hann las hana með athygli og ræddi um hana við Baldvin, og bað hann sýna dr. theol., hirðpresti J. P. Mynster hana. Hann var þá ásamt Engelstoft í yfirstjórn háskólans og latínuskólanna. Þá er Baldvin færði honum ritgjörðina, ypti hann öxlum og þar með búið. Þó gaf hann Baldvin í skyn, að unnið væri að því að gjöra upp reikninga milli skólans og jarðabókarsjóðsins. Það hefði verið byrjað á því starfi fyrir mörgum árum, og það mundu líða mörg ár áður en því yrði lokið.

Baldvin brá sjer til Íslands þá um sumarið (1828) og hitti þá biskup landsins á yfirreið hans um landið. Baldvin fjekk honum eptirrit af ritgjörð þessari um skólamálið og mintist á það við hann. Veturinn eptir sendi biskup Baldvin nokkrar athugasemdir við nokkurn hluta af ritgjörðinni. Biskup yfir Íslandi var þá Steingrímur Jónsson. Hann var lærður maður og hugdeigur og fráhverfur öllum breytingum og stórgerðum framförum. Hann tók tillögum Baldvins ver en hann bjóst við, og gramdist Baldvin það auðsjáanlega. Honum fanst vera hin mesta nauðsyn á að endurbæta svo Bessastaða-

skóla, að hann gæti staðið jafnfætis samskonar skólum erlendis, og að auka verklega þekkingu í landinu, en allar athugasemdir biskups miðuðu að því að sýna og sanna, að alt væri harla gott eins og það væri, og eigi þyrfti neinna breytinga við.

Orð dr. Mynsters um fjárhag skólans urðu til þess að Baldvin tók að kynna sjer það mál og ritaði um það ritgjörð á dönsku, er hann fjekk Engelstoft[1]. Í ritgjörð þessari minnist Baldvin fyrst á stofnun skólanna 1552 og talar síðan um þau lagaboð og brjef konungs og stjórnarinnar, er snerta fyrirkomulag og fjárhag latínuskólanna fram til sinna daga. Hann kemst að þeirri niðurstöðu, að skólarnir á Íslandi hafi aldrei átt eignir, sem hægt sje að telja í peningum, heldur kröfur til dómkirknanna að Hólum og Skálholti um hæfileg skólahús, sæmilegt fæði og laun handa fjórum kennurum, og fæði og húsnæði m. m. handa 48 og síðan 1743 handa 40 lærisveinum, og að nú hvíli þessar kröfur á sjóði konungs, jarðabókarsjóðnum og ríkissjóðnum, samkvæmt konungsbrjefum 29. apríl 1785 og 2. oktbr. 1801. Hann minnist einnig á það, hve dregið hafi verið af við skólann eptir því sem peningarnir hafi fallið í verði. Þótt veitt væri að nafninu til meira fje til Bessastaðaskóla um þær mundir en til Hóla- og Skálholtsskóla, þá er aðskilnaður var gerður á fjárhag biskupsstólanna og skólanna eptir 1755, var það þó í raun rjettri minna, því að peningarnir höfðu lækkað svo mikið í verði. Hann getur þess að lokum, að það sje eigi skólunum að kenna, þó gerðar hafi verið óheppilegar breytingar á þeim, án þess að nauðsyn hafi rekið til, svo nú sje skólinn illa kominn, og

1) Ritgjörð þessi heitir »*Tillæg til Tanker om det lærde Skolevæsen i Island*«, og er nú nr. 50 fol. í handritasafni Bókmentafélagsins. Hún er 17 bls. þjettritaðar.

Baldvin minnir á, að það sje gagnstætt markmiði allra mentaðra þjóða, að takmarka svo rjettindi slíkra stofnana, sem eru nauðsynlegar sökum heilla almennings. Velferð landsins krefur hreint og beint, segir hann að skólinn sje eigi sviptur neinum af rjettindum sínum, heldur aukinn og endurbættur að mun. Bessastaðaskóli á kröfu til konungssjóðs um hæfilegt skólahús, uppeldi handa 40 lærisveinum og sæmileg laun handa fjórum kennurum. Auk þess er loforð fyrir því að skólanum skuli vera vel fyrirkomið svo sem þörf er á (sbr. innganginn að kgsbr. 2. oktbr. 1801).

Hann endar með þessum orðum: Það verður að endurbæta skólann á Íslandi. Menn skulu sanna að landið mun taka framförum, ef það er gert. Þá munu menn sjá af verkunum, að orsökin til þess, að svo margar tilraunir í þá átt að koma upp landinu hafa mistekist, aðallega er sú, að uppfræðsla landsmanna hefur verið mjög ófullkomin og óhagfeld.

Yfirstjórnendur íslenskra mála munu varla hafa fengið svo látlaust og skorinort erindi um íslenskt málefni sem ritgjörð Baldvins Einarssonar síðan landsmenn sendu almennu bænarskrána, en nú gekk alt þegjandi, enda gerðist þetta í kyrþey og að eins einn maður afhenti nokkrum mönnum í einni stjórnardeildinni erindi um endurbót; eigi var heldur farið fram á neitt, sem á nokkurn hátt gat skert hag einstakra manna, eins og almenna bænarskráin gerði. Ritgjörðir Baldvins voru eigi heldur prentaðar og vöktu því alls enga eptirtekt meðal manna, þar sem þær voru flestum ókunnar, en þó munu þær að líkindum hafa verið fyrsta undirrótin til þess, að farið var nokkru síðar að hugsa um að endurbæta latínuskólann. Einnig munu þær hafa skýrt fyrir yfirstjórn skólanna, hvað Bessastaðaskóli ætti tilkall til.

Baldvin hefur auðsjáanlega orðið gagntekinn af

um mentuðum mönnum eru ljós; í dönsku ritgjörðinni þurfti hann þess eigi, því að hún var ætluð fróðari mönnum; í henni gat hann því lýst miklu betur, hvernig fulltrúaþingi skyldi háttað á Íslandi, og hún er því nú miklu meira verð en íslenska ritgjörðin.

## VIII.

Eins og fyr er sagt hafði Baldvin byrjað að stunda lögfræði, þá er hann hafði tekið annað háskólapróf haustið 1827. Alt það, sem hjer hefur verið sagt frá, voru hjáverk hans á námsárum hans, því að lögfræðisnám sitt stundaði hann eigi ver en aðrir, og auk þess lagði hann töluverða stund á náttúrufræði. 28. febrúar 1828 sótti Baldvin um styrk til sjóðsins »ad usus publicos« til þess að hlíða á fyrirlestra í steinafræði, grasafræði og eðlisfræði, og kveðst hann hafa verið ákveðinn í að afla sjer þekkingar í náttúrufræði, þá er hann kom til háskólans. Hann fjekk engan styrk í það sinn, því að aðrir Íslendingar nutu þá þess styrks, sem Íslendingum var ætlaður til náttúrufræðisnáms. Árið eptir sótti Baldvin aptur um styrkinn og með konungsúrskurði 2. júní 1829 voru honum veittir 150 rd. á ári frá 1. júlí 1829 í þrjú ár til þess að stunda náttúrufræði.[1] Á þessum árum hlustaði hann á fyrirlestra hjá prófessor Reinhardt um fuglana í Evrópu, prófessor Bredsdorff um steingjörvinga, prófessor Örsted um aðalatriðin í efnafræði, á prófessor Zeise um organisk efni og á prófessor Forchhammer um efnafræði. Einnig tók hann þátt í efnafræðis-æfingum Forchhammers á tilraunastofu fjölfræðisskólans (Polytekniska skólans) og hlýddi á professor Örsted um rafmagnsfræði, galvanisme og magn-

1) Öll þessi skjöl eru við nr. 586 F. a. u. p. Journal 6.

etisme. Af þessu má ráða að hann hefur á námsárum sínum aflað sjer töluverðs fróðleiks í náttúrufræði, þótt það hafi eigi getað verið nema í molum, þar sem hann varð að stunda lög og rita Ármann í hjáverkum og lesa alt, sem hann þurfti til þess.

Til þess að geta ritað Ármann þurfti Baldvin eigi að eins að kynna sjer fornsögur vorar, heldur og hið helsta af bókmentum landsins á 18. öld. Hann vitnar í því nær öll þau rit, sem komu út á 18. öldinni og snertu eitthvað framfarir landsins, atvinnuveg þess og hag. Það er satt sem hann segir 2. október 1829 í brjefi til sjera Jóns Konráðssonar: »Jeg er altaf að leggja mig eptir að þekkja ástand landsins og karakter fólksins, og er eg þegar sæmilega heima í því, eptir því sem er að gera, því fáir hafa þekkt það rjett[1]«.

Baldvin skipti þannig kröptum sínum á milli þriggja greina, lögfræði, náttúruvísinda og Íslands. Lögfræðin var skyldunám hans, fræðin um Ísland var vildarnám hans og náttúruvísin voru nauðsynjanám til þess að hann gæti unnið Íslandi sem mest gagn og endurreist þjóðina úr gömlum vesaldómi. En auk þessa vann Baldvin ýmislegt fleira. Vorið 1829 var hann kosinn varaskrifari í Bókmentafjelaginu í Kaupmannahöfn og Rask, sem var forseti fjelagsins, fjekk hann þá til þess að semja Skírnir fyrir það ár og til sumarmála 1830 (4. árgang); vitnaði Rask að hann hafi leyst það af hendi »með sinni venjulegu málsnild«.[2]

Árið eptir (1830) varð hann skrifari í Bókmentafjelagsdeildinni og var það til dauðadags. Það ár gekk hann í fornfræðafjelagið. Árið eptir komst hann í harða ritdeilu við prófessor Rask útaf þýðingu prófessors

1) Tímarit Bókmentafjelagsins V, 247.

2) Skírnir IV, 77.

Rafns á Jómsvíkinga sögu. Það var bitur og sorgleg deila, sem betur hefði verið að eigi hefði átt sér stað, einkum af því að annar eins Íslands vinur og Rask var annar málsaðili og hann tók sjer deiluna mjög nærri. Baldvin ritaði þá tvo bæklinga, annan þeirra mjög langan, og voru þeir báðir prentaðir það ár (1831). Af því að dr. Björn Magnússon Ólsen hefur lýst vel deilu[1] þessari, skal eigi talað nánar um hana hjer, enda yrði það oflangt mál, ef ætti að gera það til hlítar, því að svo miklar heimildir eru til um hana, sem enn hafa eigi verið notaðar. Að eins skal þess getið að danskur maður, sem hjet Larsen, mun hafa ritað ritdóminn, en Þorsteinn Helgason hjálpað honum nokkuð,[2] en þetta vissi Baldvin eigi, og hugði að Þorsteinn væri höfundurinn. Í annan stað hafði deila þessi ýms óþægindi í för með sjer fyrir Baldvin, sjerstaklega heima á Íslandi. Þar snerist hver á fætur öðrum á móti honum og sumir reyndu að skaða hann með því að segja Ármanni upp. Af höfðingjum mátti heita að allir snerust á móti honum, nema Bjarni Thorarensen og Gunnlaugur Oddsson. Bjarni Thorsteinsson ljet hann eigi heldur gjalda deilunnar, þótt honum mislíkaði hún mjög. Hann var svo mikill rósemdar og vitsmunamaður að hann gat dæmt hitalaust um hana.

Íslenskir námsmenn við háskólann skipuðu sjer aptur á móti utan um Baldvin á þessum árum. Hann hafði reynt að hafa góð og vekjandi áhrif á þá. Vorið 1829 hafði hann farið að hugsa um að koma á fjelagsskap meðal þeirra, eða jafnvel meðal allra Íslendinga, sem þá voru í Kaupmannahöfn. Hann sá að ekkert band var

1) Sjá Tímarit Bókmentafjelagsins IX, 29—38.

2) Sbr. brjef Bjarna Thorarensen 27. júlí 1831 til Finns Magnússonar; einnig brjef Gunnlaugs Oddssonar 24. febr. 1832 til sama.

meðal Íslendinga, sem tengdi þá saman; þeir paufuðust sjer, og þess vegna voru jafnan flokkadrættir á meðal þeirra. Margir af stúdentum menntust lítið. Þeir komu líkir aptur heim til Íslands sem þeir fóru, að undantekinni þeirri vísindagrein, sem þeir lærðu. Þeir sáu lítið og kyntust lítið hinu »praktiska lífi«. Aldrei hugsuðu þeir í sameiningu eða töluðu eða rituðu eða gerðu nokkuð, það, sem horfði til eflingar fósturlandi þeirra. Þetta var dómur Baldvins um íslenska stúdenta í Höfn 1829[1], og mun enginn, sem þekkir til stúdentalífsins íslenska, efast um að hann sje sannur. Til þess að bæta úr þessu fór Baldvin að hugsa um að stofna »klubb« eða samkundu meðal íslenskra námsmanna, en úr því varð þó ekki fyr en veturinn 1830—1831 eða haustið 1830, og munu frelsishreifingarnar hafa ýtt undir hann. Baldvin ritaði lög samkundu þessarar, og kallaði hana »bræðralag« en með einkanafni »Alþingi«. Þeir Íslendingar, sem iðkuðu bókmentir í Höfn komu þar saman einu sinni í hverri viku og lásu þar bækur, er Ísland snerti. Tilgangur samkundunnar var að auka samheldni meðal íslenskra námsmanna og að örfa og næra þekkingu á öllu því, er Ísland snerti. Gerði Baldvin sjer fagra von um bræðralag þetta og að mikið gott mundi af því leiða. Hann hugði jafnvel að það mundi geta tekið að sjer Ármann, þótt hann yrði að hafa umsjón með honum fyrst um sinn.[2]

Flestallir eða allir íslenskir námsmenn gengu í bræðalag þetta, en þó fór þetta öðru vísi en Baldvin ætlaði. Það tók aldrei Ármann að sjer; bæði það og Ármann

1) Sbr. brjef Baldvins 4. maí 1829 til Bjarna amtmanns Thorsteinssonar.

2) Sbr. brjef Baldvins til föður hans 21. marz 1831. Í fjórða árgangi Ármanns eru prentuð tvö kvæði eptir Ögmund Sigurðsson, sem sungin voru í samsæti bræðralagsins.

fjellu um koll, þá er Baldvin dó. Hann einn var sú máttarstoð, sem hjelt hvorttveggju uppi.

Vorið 1831 bárust fregnirnar heim til Íslands um deilu Baldvins og Rasks, um stofnun bræðralagsins Alþingis og um uppreistina í Belgíu og fleiri frelsishreifingar. Höfðingjarnir flestir og skólagengnir menn urðu reiðir við Baldvin út af deilunni og hræddir við stofnun bræðralagsins og frelsishreifingarnar í útlöndum. Jón skólameistari Jónsson ritar Finni Magnússyni á þessa leið þá um sumarið: »Allir hjer syðra, sem vit hafa um að dæma, að undanteknum máske einum (ɔ: konsist— (orialassessor) G(unnlaugur) O(ddsson) og jeg veit eigi um Ass(essor) (Bjarna) Th(orarensen)) voru sem slegnir reiðarslagi af gremju yfir því, og misbilligede landanna fyrirtæki í einu og öllu, bæði í hlutdeild þeirra í stríðinu, bókmenta(fjelags) embættisvalinu og alþingisklubbs stofnuninni. Alþing kafnar þar sannlega undir nafni; en hans ɔ: alþ. klubb. minning mun og sem útslett, því heyrt hefi eg að margir landar smátt og smátt drægi sig út úr honum, og að synir m(ínir)[1] hafi verið með þeim fyrstu, sem þegjandi drógu sig út úr honum, sem gleður mig. Þeir sjálfir nefna klubben annars ekki með einu einasta orði«.[2] Bjarni amtmaður Thorsteinsson óskar þess helst að Hannes frændi þeirra hjóna, sonur Steingríms biskups, »komi ei í illan soll og að hann leiði sig framhjá því nýja alþingi í Khöfn«.[3] Árni Helgason minnist á við Rask, að þeir hafi frjett að íslenskir námsmenn hafi stofnað klúbb, og segir að allir sjeu »við það fyrirtæki hræddir, því þess meira óvit saman kemur,

1) Þ. e. Markús og Ásmundur, sem báðir urðu síðar prestar í Odda á Rangárvöllum.

2) Brjef 24. júlí 1831.

3) Brjef Bjarna Thorsteinssonar 28. ág. 1831 til Finns Magnússonar.

þess meiri verður heimskan«.[1] Það var líka nokkuð að óttast, en margir voru svona í þá daga, að þeir óttuðust hverja breytingu og hvert lífsmark.

Allir Íslendingar urðu þó eigi óttaslegnir. Bjarni Thorarensen varð mjög glaður, er hann frjetti af stofnun alþingis meðal stúdenta. »Guð blessi alþingi yðar« ritaði hann Baldvin, »því er miður, að margir lasta það, en sú skömm skal mig aldrei henda«. En Bjarni Thorarensen þótti líka ógætinn maður á meðal höfðingjanna syðra; þó var óaðgætni hans eigi meiri en svo, að hann fer að ráða Baldvin til þess að fá danskan mann fyrir forseta í alþingi þeirra, til þess að enginn gæti sagt að það væri óvinveitt skilnaðartilraun frá Dönum. Hann aðvarar einnig Baldvin og segir: »allra augu horfa á yður, og því miður munuð þjer sem sumir aðrir reyna, að það er satt: »de middelmådige hoveder hade og frygte de gode!« og nátthúfur og læpumenni hata ætíð fjörmenn og framkvæmdarmenn«. Hann gerir sjer von um að alþingi námsmanna verði jafnvel vísir til endurlífgunar þingsins við Öxará, og biður Baldvin að stefna að því[2].

Sumir stúdentar í Kaupmannahöfn fengu aðvörun frá feðrum sínum eða frændum meðal embættismannanna á Íslandi um að varast þennan voðalega »klúbb« og koma eigi nærri honum[3]. Nokkrir þeirra gengu einnig úr honum, en þeir voru flestir, sem fylgdu Baldvin og þótti hann halda vörn uppi fyrir hönd Íslendinga í deilunni út af þýðingu Rafns.

Baldvin vissi það vel hvaða hug flestir höfðingjarnir á Íslandi báru til hans. Í brjefi 29. apríl 1831 til Bjarna Thorsteinssonar segir hann, að hann sje sá einasti

1) Tímarit Bókmentafjelagsins IX, 105.

2) Sbr. brjef Bjarna Thorarensens 25. ágúst 1831 til Baldvins. Tímarit Bókmentafjelagsins X, 144.

3) Sbr. Tímarit Bókmentafjel. IX, 105.

höfðingi á Íslandi, (þegar hann undantaki justitsráð Bjarna Thorarensen), sem sje honum meðmæltur og sá einasti höfðingi á Íslandi, hvers orð v e g a h j e r nokkuð. Þess vegna leitar hann til hans um meðmæli. Þetta er þó svo snemma að frjettirnar um deiluna við Rask voru varla komnar til Íslands. En það mun eigi hafa þurft þá deilu til þess að sumir höfðingjarnir yrðu óánægðir með Baldvin. Það er að minnsta kosti nærri sanni, sem hann skrifar föður sínum um haustið 1831 eða vorið 1832, — brjefið er eigi dagsett. — Hann getur þess að margir höfðingjar heima einkum á Suðurlandi hafi skömm á sjer og segir »þeim mun þykja að það beri ofmikið á mjer við hliðina á sjer, þeim mun þykja það að, að eg held ekki að mjer höndum eins og þeir, það sem Ísland áhrærir. Eg hræðist ekki óvild þeirra, sem er lítilsvirði, gæti eg áunnið mjer meira en almennan þokka hjá almenningi, hann er miklu meira verður, og þá væri eg ánægður«.

Hjer verður að gæta að því að Baldvin talar við föður sinn. Honum mun hafa þótt sonur sinn eigi ávalt svo gætinn sem skyldi. Eðlilega leiddi af því að Baldvin benti á það, sem kynni að vega upp á móti óvild höfðingjanna. Fyrir jafnduglegan mann og vitran sem Baldvin var óvild höfðingjanna eigi hættuleg, en þokki almennings var hins vegar eigi mikilsvirði, því að almenningur var svo daufur og dáðlaus, að hann hefði enga hjálp veitt Baldvin, þótt hann hefði þurft á að halda. Almenningur lá í svefn-fjötrum og einungis ef hann vaknaði og neytti orku sinnar, gat verið styrkur að þokka hans. Þetta hefur Baldvin hlotið að sjá, en þótt hann kæmist svona að orði við föður sinn, vann hann eigi til þess að afla sjer þokka almennings, heldur til þess að þoka þjóðinni áfram.

Kaupmennirnir vorir einnig reiðir við Baldvin sjer-

staklega út af ræðu Ármanns og af því að hann fann að dönskuslettunum; en af þeim flestum var þó einskis góðs að vænta Íslandi til handa. Baldvin gerði eigi heldur ráð fyrir því að þeim mundi líka við hann, allra síst þeim, sem þóttust vera yfirmenn bænda, en eins og hann segir í nýnefndu brjefi til föður síns, gat hann eigi gert hvorttveggja í einu »sagt satt og lotið þeim líka. Þeirra bölv. danska sligar Ísland að lokunum«. Um 1830 var margfalt meiri ástæða en nú til þess að óttast, að danskan mundi spilla og jafnvel eyðileggja íslenskuna.

## IX.

Baldvin hafði ætlað sjer að taka próf í lögum vorið 1831; og svo langt var það komið, að hann var búinn að senda bónarbjef um það til lögfræðiskennaranna, en seinustu dagana rjett fyrir próf varð tengdamóðir hans í miðjum mars mánuði dauðveik og andaðist hún 22. mars. Baldvin var þá kvongaður og kona hans óljett og komin að falli; eignaðist hún son 29. mars. Baldvin varð því að vaka á nóttunum yfir sjúklingum og tafðist frá öllum lestri þá dagana, svo að hann gat eigi gengið upp í það sinn, en var hins vegar ekki orðinn enn svo sterkur í lögfræðinni, að hann hefði eigi orðið að treysta nokkuð á lipurleik og munninn.[1] Þennan vetur ritaði hann mestallan þriðja árganginn af Ármann í hjáverkum og fyrri hluta þessa árs átti hann í deilunni við Rask og hafði hún einnig tafið hann nokkuð frá lestri, þótt það hefði verið minna, en vænta mátti.

Þá er Baldvin fór fyrst utan var hann trúlofaður Kristrúnu dóttur sjera Jóns á Grenjaðarstað, sem síðar varð kona sjera Hallgríms Jónssonar á Hólmum

1) **Brjef Baldvins 21. mars 1831 til föður hans.**

í Reyðarfirði. Í Kaupmannahöfn kyntist hann stúlku þeirri, sem síðar varð kona hans. Hann varð henni eða fósturmóður hennar svo skuldbundinn í peningalegu tilliti, að því sem einn ættmanna hans hefur sagt mjer, að hann þóttist eigi geta annað en bundist henni. Hvað satt er í þessu veit jeg eigi. Eptir því sem frú Hildur Johnsen, systir Kristrúnar, sagði, kom Baldvin heim til Íslands að kveðja Kristrúnu og hefur það hlotið að vera sumarið 1828 eða fyrri hluta þess sumars. Það ár fór hann til Íslands, en árið 1829 ekki, og hann mun aldrei hafa sjeð Ísland eptir það. Skilnaður þeirra Baldvins og Kristrúnar olli þeim báðum hinnar mestu sorgar.

Baldvin virðist þó eigi hafa kvongast fyr en haustið 1830, því að 21. mars 1831 skrifar hann föður sínum með fyrsta vorskipi að hann sje kvongaður og konan þunguð. Stúlka sú, sem hann gekk að eiga, hjet Johanne Hansen, og er sagt að hún hafi verið óvenjulega fríð sýnum, en eigi er mjer kunnugt um ætt hennar og uppruna, og hef eigi heldur grennslast eptir því. Um sumarið las Baldvin af kappi undir próf, uns hann í september mánuði um haustið leysti hið skriflega próf af hendi, og hið munnlega 21. október (1831) og fjekk fyrstu einkunn.

Þá er Baldvin hafði tekið embættispróf fór hann þegar að hugsa um að afla sjer fullkomnari þekkingar í náttúruvísindunum, en honum hafði verið hægt á stúdentsárum sínum. 1. nóvember (1831) sótti hann um 350 rd. styrk á ári af sjóðnum »ad usus publicos« til þess að stunda náttúruvísindi á polytekniska skólanum. Ætlaði hann að taka þar próf. Hann beið nú eigi svars, heldur fór hann að ganga á skólann, af því að konferensráð Jónas Collin, sem var ritari sjóðsins, gaf honum góða von um styrkinn; einnig hafði hann góð meðmæli frá kennurum sínum, þar á meðal H. C.

Örsted, náttúrufræðingnum. Það leið nú og beið svo að Baldvin fjekk ekkert svar. Loksins neyddist hann til þess að rita Collin og biðja hann um svar, eða afsvar, ef eigi væri hægt annað, til þess að hann gæti þá tekið annað fyrir og annast konu og barn sitt; er auðsjeð að Baldvin var þá í miklum vandræðum staddur. 23. april 1832 lagði stjórn sjóðsins til að hann fengi 350 rbd. í silfri um eitt ár; getur hún þess, að hann þurfi ríflegan styrk, ef duga skuli, af því að hann eigi konu og barn. Einnig getur hún um að Baldvin geri gagn með því að gefa út ársritið Ármann til þess að styrkja atvinnuvegina á Íslandi. Með úrskurði 3. maí 1832 samþykti konungur tillögu stjórnar sjóðsins.[1]

Fám dögum síðar, 11. maí 1832, sótti Baldvin til Rentukammersins um 400 rd. styrk á ári í tvö ár af íslenska jarðarbókarsjóðnum til þess að stunda náttúruvísindi og búa sig undir próf á polytekneska skólanum. Hann getur þess að hann hafi fengið 350 rd. af sjóðnum »ad usus publicos«. Hann kveðst jafnan hafa lagt stund á náttúruvísindi og getur um Ármann og ritgjörð sína um fulltrúaþingin. Vottorð fylgdu frá H. C. Örsted og fleiri háskólakennurum í náttúruvísindum. Með konungsúrskurði 10. júlí 1832 voru honum veittir 300 rd. í seðlum í tvö ár[2].

Jafnframt því að Baldvin stundaði náttúruvísindi, einkum eðlisfræði, á polytekniska skólanum, tók hann nú að leggja allmikla stund á forna íslenska lögfræði. Veturinn 1831—1832 las hann grandgæfilega Grágás, sem hafði þá komið út fyrir tveimur árum, og ritaði síðan langa ritgjörð um Grágás, *Bemærkninger om den gamle is-*

1) Sbr. nr. 449, F. a. u. p., Journal 7.

2) Isl. kgel. Resolutioner 1830—32 sbr. einnig Islands Journal 17, nr. 604.

*landske Lov Graagaasen,* sem prentuð var eptir andlát hans í *Juridisk Tidsskrift*, 22. bindi (1834), bls. 1—146 og 277—360. Allmikið af ritgjörð Baldvins er að vísu, eins og hann sjálfur segir, útdráttur úr ritgjörð J. F. G. Schlegels fyrir framan Grágás, en hún ber þó vitni um hina miklu elju Baldvins, fróðleiksfýst hans og fjölhæfi. Einnig eru í henni með ýmsar góðar athuganir, þótt hún hafi nú varla nokkuð vísindalegt gildi, sem eigi er heldur von á. Alt það, sem snerti sögu landsins, einkum í atvinnugreinum og efnahag þjóðarinnar, stundaði Baldvin einnig; hann vildi jafnan athuga það, sem reynslan kendi, til þess að alt yrði sem traustast, er hann reisti. Hann ritaði einnig þennan vetur (1831—32) álit um þýðingu þá á dönsku, sem Halldór sýslumaður Einarsson ljet prenta af ritgjörð Hannesar biskups Finnssonar »um mannfækkun af hallærum«; er ritgjörð Baldvins prentuð í »*Maanedsskrift for Litteratur*« VIII, 209—244 (1832).

En Baldvin auðnaðist ekki að starfa lengi fósturjörð vorri til heilla og framfara. Öndverðlega í desembermánuði 1832 stóð ljós á borði fyrir framan hvílu hans um morgun um fótaferðartíma: borðið valt um koll, en ljósið náði til rúmtjaldsins og funaði það upp í einu vetfangi. Hann stökk þá upp því nær alls nakinn úr rúminu, reif tjaldið ofan og gat slökkt eldinn, en skammbrendist svo við það, bæði á höndum og fótum, að hann lagðist jafnskjótt rúmfastur og reis eigi á fætur síðan. Hann lá í sárum rúmar átta vikur og skiptust landar hans til að vaka hjá honum, því að kona hans varð ljettari um það skeið. Hann leið mikið. Kraptar líkamans þverruðu dag af degi og voru öldungis þornir, þá er hann andaðist; voru þá hendurnar orðnar heilar og annar fóturinn, en annar ekki. Sálin hjelt samt fjöri

sínu og kröptum óskertum fram í andlátið. Hann andaðist 9. febrúar 1833, er hann hafði hálfnað 32. árið[1].

Hið síðasta, sem jeg hefi sjeð eptir Baldvin, er umsókn hans 30. desember 1832 til sjóðsins »ad usus publicos«. Hann lá þá í sárum og sækir um 350 rd. um eitt ár til þess að ljúka við nám sitt á polytekniska skólanum. Hann hefir ritað umsóknina sjálfur, þótt hönd hans hafi annan svip en vanalegt er, af því að hann ritar í rúminu. Með umsókninni fylgdu mjög góð meðmæli annað frá náttúrufræðingnum H. C. Örsted, dagsett 10. janúar 1833, hitt frá lögfræðingnum Kolderup Rosenvinge, dagsett 11. janúar 1833. Nú er auðsjeð að Baldvin var fatlaður, því að nærri tvær vikur liðu frá því að hann ritaði umsókn sína og þangað til hann gat sent hana af stað. Kolderup Rosenvinge segir að hann hafi stundað nám sitt með mikilli iðni og að hann hafi sýnt bæði með prófum sínum og ritgjörðum að hann hafi bæði góða þekkingu og óvenjulega miklar gáfur. Það megi vænta mikils af honum bæði fyrir vísindin og föðurlandið. Þess vegna hafi háskólaráðið veitt honum Hurtigkarls styrkinn í fyrra.

Stjórn sjóðsins lagði til 2. febrúar 1833 í álitsskjali sínu að Baldvin væru veittir 350 rd. Kveðst hún eigi geta annað en álitið hagkvæmt, — eins og Baldvin hafði drepið á í umsókn sinni, — að ljúka við það verk, sem töluvert fje væri búið að kosta upp á, nefnilega að ala upp svo duglegan náttúrufræðing, að síðar mætti nota hann til þess að rannsaka rækilega náttúru Íslands, sem væri mjög lítið kunn, og til þess að útbreiða náttúruvísindi og verklega þekkingu á Íslandi.

1) Skírnir 1833, VII. 67. Ný Fjelagsrit VIII, bls. XIII. Umsókn ekkju Baldvins 13. apríl 1833, Finansdeputationen J. 1833, nr. 2034.

Við dauða Baldvins fjell tillaga sjóðsstjórnarinnar um koll, en konungur úrskurðaði þó 19. febrúar 1833 sökum álitsskjals hennar, að ekkja Baldvins skyldi fá 150 rd.[1] Hún stóð nú ein uppi með tveimur ungbörnum. Hið eldra þeirra var sveinn, sem heitir Einar Bessi. Hann var kominn langt á annað árið, er hann misti föður sinn. Hann var síðan nokkur bernskuár sín á Íslandi, í Enni hjá Lárusi Thorarensen. Með tárin í augunum var hann síðan fluttur frá Íslandi til Holsetalands, því að hann vildi eigi fara frá Íslandi, en móðir hans og stjúpi vildu þá fá hann til sín. Síðan hefur hann lengstum alið aldur sinn þar syðra og verið um langan aldur tollembættismaður í Altona eða Hamborg, en nú hefur hann fengið lausn frá embætti og lifir af eftirlaunum sínum. Hann er kvongaður góðri konu, ættaðri frá Borgundarhólmi, og eiga þau son, er Baldvin heitir, mjög gjörvulegan mann. Jeg heimsótti þau hjón 1887 og var vel fagnað; höfum við sjest nokkrum sinnum síðan, er þau hjónin hafa komið hingað til Hafnar.

Annað barn Baldvins Einarssonar var dóttir. Hún var tveggja vikna gömul, er faðir hennar andaðist, og var skírð á greftrunardegi hans og nefnd Baldvina. Hún andaðist rúmlega ársgömul.

Ekkja Baldvins var auðvitað illa stödd, er hann fjell frá. Hann hafði eigi getað látið eptir sig neina fjármuni, er hún gat lifað af, og sjálf var hún þá með köflum lengi mjög heilsutæp, svo hún gat ekkert unnið sjer inn. En margir urðu til að rjetta henni hjálparhönd, því að Baldvin var bæði vinsæll og vel metinn af mörgum. Íslendingar í Kaupmannahöfn sýndu henni þá hjálp, sem í þeirra valdi stóð að veita, og margir af kennurum

1) Nr. 157 F. a. u. p. Journal 8.

háskólans og ýmsir aðrir sendu henni töluverðan peningastyrk. Með konungsúrskurði 7. júní 1833 voru henni veittir 50 rd. og aptur sami styrkur með kgsúrsk. 16. nóvbr. 1833[1]. 14. febr. 1835 fjekk hún 100 rd. á ári í 4 ár til uppeldis Einari syni sínum. Sumarið 1838 giptist hún manni, sem hjet Lohse, og var þá fullvaldur í General-Tollkammerinu. Í árslok það ár var hann settur tollgæslumaður í St. Margaretheu í Holstein og fluttu þau hjónin þá þangað[2]. Hann fjekk síðan það embætti og dvaldi þar síðan. Til þeirra fór Einar litli, er hann kom frá Íslandi og þannig atvikaðist það, að sonur Baldvins Einarssonar varð þjóðverskur þegn og embættismaður, en ávalt ber hann þó hlýjan hug til Íslands og sonur hans eigi síður.

Það segir sig sjálft, að fráfall Baldvins var þungt fyrir ekkju hans og nánustu vandamenn, en andlát hans vakti einnig almenna sorg meðal landa hans í Kaupmannahöfn og þeirra manna á Íslandi, sem kunnu að meta hann og skildu hvílíkur afbragðsmaður hann var. Þeir sáu best hvílíkur skaði það var fyrir fósturjörðina að missa hann þegar á hinum fyrstu manndómsárum hans, og harmurinn varð því meiri, því betur sem menn skildu þetta.

Fregnin um bruna og andlát Baldvins kom jafnsnemma til Íslands. Þá er Bjarni Thorarensen heyrði það, kvað hann þessa vísu, sem margir kunna:

Ísalands
óhamingju

1) Finansdeputationen Nr. 2034 og 3651 Journal 1833.

2) Finansdeputationen Nr. 3022 og 4153 Journal 1838. Sbr. Statssekretariat for Naadesager 1284/1847, henlagte sager.

verður allt að vopni,
eldur úr iðrum þess,
ár úr fjöllum
breiðum byggðum eyða.

Hann ætlaði að kveða meira, — þetta er að eins upphafið, — en það er eins og sorgin hafi synjað honum máls. Jón Espólín orti eptir Baldvin, og í Skírni (1833) er hans minnst með miklum söknuði, en mjög lítið er minnst á lát hans í þeim brjefum, sem jeg hef sjeð frá Íslendingum heima, það ár, sem hann dó. Fáum árum síðar minntist Jónas Hallgrímsson hans fagurlega í Saknaðarljóðum, sem út komu í Fjölni (1837).

Bestu menn landsins hörmuðu fráfall Baldvins, og það var full ástæða til þess, því að hann var »sönn gersemi lands vors«, eins og Bjarni Thorarensen sagði um hann í lifandi lífi.[1] Baldvin vildi endurbæta alt, sem helst þurfti endurbóta við, og hann vildi nota bæði framfarir nútímans og gamlan þjóðlegan grundvöll, þar sem það átti best við hjá oss. Þrátt fyrir ást hans til þjóðveldistímans, sýndi hann þó best hve mikill nútímamaður hann var, er hann tók þegar að stunda náttúruvísindi af kappi, þá er hann hafði lokið laganámi sínu, til þess að hann gæti síðan fengið sem fullkomnasta þekkingu á náttúru landsins, frjósemi þess og afurðum og stutt atvinnuvegi landsmanna sem best með ráðum og dáð.

Það gegnir furðu hve mikið Baldvin fjekk unnið í hjáverkum sínum á einum fimm árum, þá er hann hafði tekið annað próf, og öll þessi ár voru námsár. Það er auðsætt að slíkt hefði verið ómögulegt fyrir hann, ef hann hefði eigi verið fullþroskaður maður, þá er hann

1) Brjef 22. nóvbr. 1832 til Bjarna Thorsteinssonar, sbr. brjef Bjarna til Baldvins 25. ágúst 1831, í Tímariti Bókm.fjel. X, 141.

kom til háskólans. En samfara miklu meiri þroska, en alment gerist meðal stúdenta, var iðni og atorka hjá Baldvin að sama skapi; gáfur hans voru mjög góðar og fjölhæfar. Vegna alls þessa gat hann á árunum 1828 til 1832 unnið eins mikið og þeir landar vorir, sem þá unnu mest, en verk hans var miklu dýrmætara en verk nokkurs annars Íslendings á þeim árum, af því að hann vann að velferð landsins með einlægri sannleiksást og hreinskilni, hraustari huga og gleggri skilningi en nokkur annar maður, og ættjarðarást hans var eins sterk og þeirra, er þá unnu landinu mest.

Alt þetta gerir æfistarf Baldvins svo fagurt. Ættjarðarást og atorka, sannleiksást og hreinskilni, viðkvæm tilfinning fyrir velferð þjóðarinnar og sæmd landsmanna voru hin guðdómlegu blóm, sem spruttu í hug hans og hjarta. Baldvin var hugsjónamaður og íturhyggjandi *(optimist)* eins og margir hugsjónamenn eru. Hugsjón hans og markmið var að endurfæða svo hvert mannsbarn á Íslandi, að landsmenn sjálfir gætu hafið land sitt og þjóð til vegs og fullrar virðingar.

Og hugsjón Baldvins lifir, þótt hann væri kallaður burtu.

---

# „Ættartölur frá Ragnari loðbrók“.

Eftir

*Jón prófast Jónsson.*

---

Í »Íslendinga sögu« I. 234 segir hr. Bogi Th. Melsteð: »Íslendingum er óhætt að hætta að telja ættir sínar til Ragnars loðbrókar, því að engin vissa er fyrir því, að nokkur þeirra sé af honum kominn, og áreiðanleg vissa fyrir því, að flestir, sem talið hafa ætt sína til hans, eru ekki af honum komnir«. Við fyrra atriðið er ekkert að athuga, en hitt má ekki láta vera mótmælalaust. Hver er þessi á r e i ð a n l e g a v i s s a, sem B. Th. M. talar svo drýgilega um? Hefir hann fundið nokkur ný rök fyrir tilveru »Ragnars loðbrókar« (t. d. í írskum árbókum eða steinletrunum)? Það lítur svo út, því að hann segir (á 232. bls.): »Víst er, að maður með því nafni (ɔ: Ragnar l o ð b r ó k) var uppi á fyrri helmingi 9. aldar«. En einmitt þetta hefir hingað til verið allsendis óvíst. »Frægur víkingaforingi«, er frakkneskar árbækur geta um árið 845, er að eins nefndur Ragnar, og G. Storm hefir fært rök til þess, að það sé ólíklegt, að hann hafi verið faðir »Loðbrókarsona« þeirra, er enskar frásagnir geta um (Kritiske Bidrag til Vikingetidens Historie 86. bls.). Það verður ekki séð á »Íslendinga sögu«, hvort B. Th. M. hyggur hann sama mann og »Raghnall

»Raghnall mac Albdan« sem nefndur er í írskum árbókum um 860, en bæði G. Storm og S. Bugge hafa haldið því fram, að svo muni ekki vera, og Bugge telur það sannað, að bak við fornsagnahetjuna »Ragnar loðbrók« standi fleiri en einn fornmaður (Bidrag til den ældste Skaldedigtnings Historie, 85. bls.). Hann minnist og á það, að »Ragnarr Sigurðarson« sem nefndur er í Ragnarsdrápu Braga gamla, geti ekki verið sami maður og »Raghnall mac Albdan« (Rögnvaldr Hálfdanarson), og tæplega sami maður og Ragnar sá, sem fór til Frakklands 845. Sé drápa þessi eigi ort fyr en þessir menn voru uppi, getur þó höfðingi sá, er hún ræðir um, ekki fremur en þeir verið ættfaðir Ólafs hvíta eða Haralds hárfagra, en samt eru líkur til þess, að Haraldur hárfagri hafi átt Ragnars-nafnið í ætt sinni og frændsemi verið með honum og Danakonungum (sbr. E. H. Lind í »Svensk hist. Tidskrift« 1896, 243. bls.). Danskir sagnamenn hafa gjört Ragnfröð Danakonung, sem Einhard getur um og féll árið 814, að sama manni og »Ragnar loðbrók«, en viðurnefnið »loðbrók« finst ekki, svo eg til viti, hjá neinum skáldum eða rithöfundum frá 9. eða 10. öld, og mun enginn vita, hvernig á því stendur. **Á** 11. öld kemur það upp úr kafinu hjá útlendum sagnariturum, að kalla nokkra fræga víkingahöfðingja frá 9. öld »Loðbrókarsonu« (ekki »Ragnarssonu«), en það hefir hingað til verið ráðgáta sagnfræðinga, hvort þessir »Loðbrókarsynir« hafi verið synir Ragnfreðar (÷ 814), eða Ragnars (÷ 845), eða Rögnvalds (÷ eftir 859), eða hvort móðir þeirra hafi verið nefnd »Loðbrók«, eða einhver af forfeðrum þeirra borið nafn þetta. Má vel vera, að það hafi upphaflega heyrt til einhverri ókunnri fornhetju, sem verið hafi uppi á fornsagnaöldinni (eins og Haraldur hilditönn) eða aldrei öðruvísi en í trú manna. Eigi er heldur neitt því til fyrirstöðu, að sögur hafi verið til á 9. öld af ein-

hverjum fornkonungi með Ragnars-nafni, og hafi þær svo að einhverju leyti blandast saman við sögurnar um víkingahöfðingja þeirra tíma í munnmælum seinni alda; að minsta kosti bendir það til þess, sem stendur í forndönsku konungatali (S. R. D. I. 28) um »Ragnar Álfsbana« (»Regner Alfbane«) skamt á undan Haraldi hilditönn (sbr. »Ragnar Hundingsson Svíakonungs« hjá Saxa II. 68). Það er því alls eigi rétt, að tala um »Ragnar loðbrók« sem »frægan víkingaforingja« á fyrra helmingi 9. aldar, og draga af því þá ályktun, að allar ættartölur frá »Ragnari loðbrók« sé tómur tilbúningur Íslendinga. Þótt sanna megi, að eigi sé rétt, að telja t. d. ætt Breiðfirðinga til Ragnars þess, er vann París 845 og dó skömmu síðar, þá er það engin sönnun þess, að Ari fróði hafi eigi haft eitthvað fornt fyrir sér í því, að telja ætt sína til »Ragnars loðbrókar« (sem ýmsar fornsagnahetjur standa á bak við), eins og í því, að telja hana til Ynglinga, hvort sem ættfærslan á rót sína í sannri frændsemi Ynglinga við Danakonunga (sbr. ritgjörð mína: »Skilfingar eða Skjöldungar« Ark. XIX. 181—90), eða að eins í fornum átrúnaði (goðhetjusögum um »Ragnar Álfsbana« eða »Loðbrók« og »Loðbrókarsonu«, sbr. G. V.: Safn I. 252 og V. Rydberg: »Hjältesagan å Rökstenen« § 13). Adam frá Brimum (II. 22) telur ætt Hákonar jarls hins ríka til »Ingvars« (Loðbrókarsonar?) og »jötna«, og hefir auðsjáanlega heyrt eitthvað um ættfærslu hans til jötna, sem oss er kunn af Háleygjatali, og líklega um frændsemi hans við »Loðbrókarsonu« (sbr »Inguar filius Lodparchi« I. 39). Hér væri þá bending um ættartölur frá »Loðbrókarsonum«, sem kunnar hefði verið í Danmörku á 11. öld, en auðvitað er ekki fullar reiður á því að henda. Hinu verður að halda fast fram, unz hið gagnstæða er sannað, að Íslendingar hafi ekki búið til ættartölur frá »Ragnari loðbrók« út í bláinn eða móti betri vitund,

heldur farið þar eftir fornum arfsögnum, öldungis eins og með ættartölurnar frá Hrafnistumönnum, sem eru ósamkvæmar hver annari, svo sem Guðbrandur Vigfússon hefir tekið fram (Safn I. 243), af því »menn skeyttu ættir sínar við fornaldarættirnar af handahófi, eftir því hvað þeir mundu langt fram« (Safn I. 227). Það hefði verið nær fyrir íslenzkan sagnfræðing að taka þessa skýringu til greina, heldur en að aflaga ummæli Guðbrands[1] og taka undir með útlendum sagnfræðingum í því, að væna Ara fróða um vísvitandi ósannsögli, sem enginn ætti að leyfa sér, nema hann færði fylstu sannanir fyrir máli sínu, en það hefir B. Th. M. ekki gjört fremur en G. Storm, því að það er ógild ástæða, sem hann tekur upp eftir Storm, að forfeður Höfða-Þórðar eru eigi taldir í Víga-Glúms og Ljósvetninga sögum, og eigi nær að draga þá ályktun af því, að »menn hafi eigi vitað nöfn forfeðra hans«, heldur en að þeir hafi eigi þekt nöfnin á feðrum Atla hins ramma, Helga magra og Þorgeirs Ljósvetningagoða, úr því sögur þessar greina ekki frá þeim. Og þá er sú ástæðan ekki betri, sem B. Th. M. kemur með (frá sjálfum sér?) um ætt Auðunar skökuls, að Álof amma Auðunar sé »eigi talin meðal barna Ragnars í sögu hans né í þættinum af sonum hans«. Þessar sögur dett-

1) G. V. hefir ekki leitt nein rök að því, að menn hafi eigi þekt „föður Kveldúlfs“ (sem nefndur er Bjálfi í Ldn. og Eg.), heldur segir hann að eins: „nú þektu menn ekki næstu forfeður Kveldúlfs“ .... og rétt á eftir, að Kveldúlfr sé „sá elzti maður í þeirri ætt, sem vér höfum sögur af“. Með þessu skilst mér eigi að G. V. vilji neita því, að faðir Kveldúlfs sé rétt nefndur í Ldn. og Eg. (þótt vér þekkjum hann að eins að nafni), heldur mun hann eiga við það, að móðurætt Kveldúlfs sé skeytt af handahófi við Hrafnistu-ættina, sem hann efast þó ekki um að Kveldúlfr hafi talið ætt sína frá, enda gjörir B. Th. M. það eigi heldur, því að hann kallar Ketil hæng landnámsmann „frænda Þórólfs Kveldúlfssonar“ (89. bls.).

ur víst fáum í hug að setja á bekk með Landnámu sem heimildarrit, eða að halda því fram, að »Ragnar loðbrók« (ɔ: einhver fornmanna þeirra, er standa á bak við nafn þetta) hafi eigi átt neina dóttur (eða »Loðbrókar synir« enga systur), af því að þær telja eigi upp nema sonu hans. Í enskum ritum er þó getið um 3 dætur »Loðbrókar«, er uppi hafi verið á seinna helmingi 9. aldar. Aðalröksemdin gegn þessari ættartölu á líklega að vera sú, að B. Th. M. þykir hún ekki sennileg, en hvers vegna ætti mönnum að þykja hún ósennilegri en t. d. ættartala Vilborgar konu Þórðar skeggja, sem B. Th. M. rengir ekki, eða ættartala Hlífar, ömmu Helga magra, sem hann virðist taka gilda, því að hann segir, að Hlíf hafi verið »af konunga-ætt« (166. bls.). — Það hefði ekki verið neitt tiltökumál, þótt hr. B. Th. M. hefði sagt um ættartölurnar frá »Ragnari loðbrók«, að þær væri ósamkvæmar hver annari og óáreiðanlegar, og bágt að vita, hver fótur væri fyrir þeim, en að drótta því að beztu fræðimönnum þjóðar sinnar, að þeir hafi viljandi gylt sig með lognum ættartölum, — það hefði hann átt að láta ógjört, unz hægt var að sanna það, þótt hann aldrei nema skrifi fyrir Dani jafnt og Íslendinga.

---

# Tímaritið Skírnir.

## Nefndarálit

### um breyting á Skírni og Tímariti Bókmentafélagsins.

---

Á síðasta aðalfundi Reykjavíkurdeildar Bókmentafélagsins, 8. júlí 1903, var stjórn félagsins falið að taka til íhugunar, hver leið mundi greiðust til að fjölga félagsmönnum og afla félaginu meiri alþýðuhylli en það nú nýtur; voru 3 félagsmenn kosnir til að vera í ráðum með stjórninni (Guðm. Björnsson, Guðm. Finnbogason, og Þorst. Erlingsson).

Því hefir verið hreyft, að hnignun félagsins sé því að kenna, að umboðsmenn þess fái of lítil umboðslaun, sem sé 15%, eða 10% minna en bóksalar fá alment út um land, hirði þeir þess vegna lítið um að örva menn til að ganga í félagið, eða selja bækur félagsins, en oti meir fram öðrum bókum, sem veita þeim meiri arð.

Aðrir hafa álitið, að erfiðleikarnir stafi af því, að bækur félagsins eru flestar ekki við alþýðuhæfi. Því verður ekki neitað, og hyggjum vér að það sé aðalmeinið.

Það er að vísu samhuga álit vort, að höfuðætlunarverk félagsins eigi jafnan að vera það, að halda á lofti þjóðlegum vísindum; en hins vegar teljum vér líka nauðsynlegt að félagið gegni kröfum tímans, gefi út fræðandi rit, er séu við alþýðu hæfi, og geti áunnið félaginu al-

þýðuhylli. Hyggjum vér að þeirri kröfu verði bezt fullnægt með því, að félagið gefi út eitt, vandað alþýðlegt tímarit.

Tímarit það, er félagið hefir gefið út undanfarin 24 ár, hefir aldrei verið haft í miklum metum af alþýðu manna, og mun orsökin vera sú, að þetta rit hefir ekki verið nægilega fjölskrúðugt að efni, enda flutt mjög mikið af vísindaritgerðum, sem margar hefðu betur átt heima í Safni til sögu Íslands. Um Skírni er það kunnugt, að mjög margir félagsmenn hafa æskt þess, að félagið hætti að gefa hann út. Hvorugt þessara tímarita hefir verið keypt af utanfélagsmönnum, svo að nokkru nemi.

Það mun sanni næst, að alþýða manna nú á dögum í mentuðum löndum hafi mestan sinn fróðleik úr blöðum og tímaritum, þá er skólunum sleppir. Í öðrum löndum, þar sem blaðamenska er komin á miklu hærra stig en hér á landi, er engu að síður álitið, að góð tímarit séu lífsnauðsyn fyrir menningarlíf alþýðunnar.

Hér á landi eru nú uppi tvö tímarit almenns efnis, auk þeirra, sem bókmentafélagið gefur út, en vér getum ekki álitið að þau, fremur en tímarit félagsins, bæti úr þessari þörf.

Gott alþýðutímarit þarf að vorri hyggju að vera margbreytt að efni, en ritgerðirnar yfirleitt stuttar. Það má ekki að neinu leyti gefa sig að stjórnmálabaráttu — ekki vera pólitiskt. Það ætti að flytja ljóst samdar ritgerðir um framfaramál þjóðarinnar, einkum þau, er lúta að endurbótum á mentun hennar og atvinnuvegum, og seilast eftir áliti þeirra manna, er mesta og bezta hafa þekkinguna í hverri grein. Það ætti ekki að þurfa að flytja ítarlegar almennar fréttir, hvorki innlendar né útlendar — það gera nú dagblöðin —, en hins vegar ætti það að flytja alþýðu manna fréttir af verklegum framförum annarra þjóða, breytingum á siðmenning þeirra, lífs-

kjörum og lífsskoðunum. Þá ætti það og að flytja fregnir um merkar vísindanýjungar, þær er á einhvern hátt miða að því, að létta mönnunum baráttuna fyrir lífinu eða víkka sjónarsvið mannlegs anda. Í þessu riti ættu alþýðumenn að fá fregnir um merkustu bækur, er út koma innanlands og utan. Í því ætti einnig við og við að færa almenningi gullkorn úr nútíðarskáldskap og önnur þau ritsmiði, er glæða mega fegurðartilfinningu manna.

Vér teljum víst, að allir verði oss samdóma um það, að þess konar tímarit mundi verða mikill menningarfengur fyrir þjóð vora, og vér álítum, að Hið íslenzka Bókmentafélag sé færara en nokkur einstakur bókaútgefandi til að leysa þetta vandaverk af hendi. Auðvitað ættu allir félagsmenn að fá ritið, en þar að auki bæri að sjálfsögðu að safna kaupendum að því utan félags. Ef alt gengi vel, mundi þess konar fyrirtæki afla félaginu meiri alþýðuhylli en það hefir nokkru sinni notið, og vafalaust auka tölu félagsmanna að stórum mun.

Vér teljum því einkar-æskilegt, að þau tvö tímarit, sem félagið nú gefur út, séu feld saman í eitt tímarit, er sniðið sé eftir beztu alþýðutímaritum útlendum og beri nafnið

**Skirnir,**

*Tímarit hins íslenzka Bókmentafélags.*

Vér viljum halda nafninu »Skírnir«, vegna þess, að Skírnir er langelzta tímarit hér á landi, 78 ára, og nafnið því kært allri alþýðu manna.

Það er samhuga álit vort, að farsælast mundi í upphafi að hafa ekki ritið stærra en svo, að út komi 4 hefti á ári, hvort um sig 6 arkir í Skírnisbroti; sé það selt utanfélagskaupendum á 3 kr. árganguinn, og láti félagið sér ant um að fá sem flesta kaupendur utan félags; teljum vér því brýna nauðsyn, að sölulaun séu sett 25%

að því er tímaritið snertir, en viljum ekki að svo komnu fara fram á, að umboðslaun félagsins yfirleitt séu hækkuð.

Oss er fullljóst, að það er afarmikið vandaverk, að annast ritstjórn á þannig löguðu tímariti, ef vel á að fara, og ekki gerlegt að fela þann starfa nefnd manna, er kosin sé á ársfundum til eins árs í senn og ætlað að vinna verkið launalaust; álitum vér að ekki verði hjá því komist, að ráða sérstakan ritstjóra og launa honum úr félagssjóði. Að sjálfsögðu ætti stjórn félagsins að ráða ritstjórann, eins og hún ávalt að undanförnu hefir ráðið mann til að semja Skírni, og þykir oss hæfa að hann sé ráðinn til 2 ára í senn með $^1/_2$ árs uppsagnarfresti, því að þess má ekki vænta, að nokkur nýr ritstjóri geti á einu ári komið ritinu að öllu leyti í það horf, sem hann helzt mundi kjósa. Vér álítum að árslaun ritstjóra megi alls ekki vera minni en 600 kr.; starf hans verður mikið og margbrotið; hann verður að gefa nánar gætur að öllum merkisviðburðum innanlands og utan, kynna sér fjölda blaða og tímarita; hann verður og að gera sér alt far um að afla ritinu aðstoðar allra beztu manna og fróðustu; af honum verður heimtað, að hvert hefti ritsins sé svo úr garði gert, að það verði velkominn gestur á hvert heimili.

Þá teljum vér nauðsynlegt að ritstjóri megi verja 40 kr. í ritlaun og prófarkalestur fyrir hverja örk (eða 960 kr. á ári) og er það sem næst því, er nú er greitt fyrir eina örk í tímaritinu, ef gætt er að muninum á arkastærð í því riti og Skírni; en vér viljum að ritstjóri, innan þessara takmarka, ráði því sjálfur með samþykki formanns félagsins, hversu mikil ritlaun hann borgar hverjum höfundi, og geti þar gert mun eftir verðmæti ritgerðanna.

Menn kunna nú að segja: Þetta er vel ráðið, en það kostar of mikið.

Þar til er því að svara, að útgáfa Skírnis og Tímaritsins kostar félagið á ári c. 1400 kr. Hins vegar telst oss til að útgáfa hins nýja tímarits mundi kosta c. 3000 kr. á ári, ef prentuð væru 1440 eintök, en það teljum vér hæfilegt. Munurinn er 1600 kr. á ári.

En svo ber þess að gæta, að félagið getur vænt sér mikillar aukatekju af þessu riti, því að vér gerum ráð fyrir að fást mundu 6—8 hundruð kaupendur utan félags þegar í stað, ef send væru út boðsbréf, þar sem vel væri skýrt frá því, hvernig ritið ætti að verða. Auk þess ætti að sjálfsögðu að taka auglýsingar og reyna að fá sem mest af þeim, að dæmi útlendra tímarita. Loks má vænta þess, að margir kaupendur tímaritsins mundu innan skamms gerast félagar Bókmentafélagsins.

Þegar á alt þetta er litið, þykjumst vér þess fullvissir, að þannig lagað fyrirtæki mundi stórum auka vinsældir félagsins, fjölga félagsmönnum og bæta fjárhaginn.

Af framangreindum ástæðum leyfum vér oss að bera fram svohljóðandi tillögur:

1) Fundurinn samþykkir, að sameina skuli við næstu áramót Skírni og Tímarit hins íslenzka Bókmentafélags í eitt tímarit, er heiti

**Skirnir.**

*Tímarit hins íslenzka Bókmentafélags*,

og komi út fjórum sinnum á ári í 6 arka heftum í Skírnis-broti og verði selt utanfélagsmönnum, er gerast fastir kaupendur, á 3 kr. árgangurinn, en í lausasölu á 4 kr. (1 kr. hvert hefti).

2) Fundurinn felur stjórn félagsins að ráða mann til að vera ritstjóra tímaritsins gegn 600 kr. þóknun á

ári. Skal ráða ritstjórann til tveggja ára í senn með 1/2 árs uppsagnarfresti frá hans hálfu.

3) Fundurinn samþykkir að verja megi til uppjafnaðar 40 kr. á hverja örk í tímaritinu til ritlauna og prófarkalesturs.

Í marzmán. 1904.

* * *

Framanritaðar nefndartillögur voru lagðar fyrir aðalfund Reykjavíkurdeildar Bókmentafélagsins 21. marz 1904, og samþyktar með þeim viðauka við 2. lið þeirra, að ritstjóri tímaritsins fái 1/3 netto-andvirðis þess, sem selst fram yfir 1000 borguð eintök (til félagsmanna og áskrifenda samtals). — Jafnframt gat forseti þess, að málið yrði lagt fyrir Hafnardeildina til samþykkis. - Á aðalfundi Hafnardeildarinnar í vor var málið tekið til umræðu, og 3 manna nefnd sett til að íhuga það. En á síðari ársfundi Reykjavíkurdeildarinnar 8. júlí þ. á. var samþykt að fela stjórn deildarinnar að gjöra nauðsynlegan undirbúning til þess, að koma í framkvæmd ákvörðunum aðalfundarins 21. marz 1904 um útkomu Skírnis, tímarits hins íslenzka Bókmentafélags, frá næstu áramótum, þótt eigi sé komið samþykki Hafnardeildarinnar, og skyldi samþykki hennar eigi fást, skuli halda fyrirtækinu áfram eigi að síður, þó svo, að beinn kostnaður við það fari eigi 1000 kr. fram úr því, er útgáfa Skírnis og Tímaritsins hefir áður kostað. — Álitsskjalið, sem prentað er hér að framan, er samið af héraðslækni Guðmundi Björnssyni.

---

## Leiðréttingar.

95. bls. 1. línu að neðan: Litir les: Lytir.
96. — 9. l. að neðan: Moromets les: Muromets.
97. — 2. l. að ofan: Heimdal les: Heimdall.
99. — 3. l. að ofan: á les: í.